1.01 c.

*Arnljotur B. Olson*

# Brot af LANDNÁMSSÖGU NÝJA ÍSLANDS

Safnað og samið
af
THORLEIFI JÓAKIMSSYNI (JACKSON)

*Arnljotur B. Olson*

*Arnljotur Bjornsson*
594 ALVERSTONE ST.
WINNIPEG, MAN



PRENTSMIÐJA COLUMBIA PRESS
WINNIPEG
1919

## INNIHALD.

*Arnljótur B. Olson*

## FORMALI.

Þegar eg á næstliðnu ári, 1918, seinni part vetrar, dvaldi norður í Fljótsbygðinni í Nýja Íslandi, heyrði eg það í samtali við þá, sem þar eru enn á lífi af fyrstu landnámsmönnunum, er settust þar að árið 1876, að þeim þótti lítið hafa verið unnið að því að semja landnámssögu Nýja Íslands. Þeim, eins og mér, fanst, úr því að byrjað var á henni fyrir 20 árum síðan, að halda hefði þá átt áfram með hana til þess er hún var búin, því nú er erfiðara að fá hjálpartæki til að semja landnámssögu, því þau, sem yngra fólkið gefur, eru ekki eins ábyggileg eins og þeir gömlu gefið gátu, sem nú er ekki hægt að tala við.

Margt er hægt að benda á, sem mælir með því, að landnámssaga Nýja Íslands hefði átt að ritast á undan landnámssögum hinna íslenzku bygðanna í Vesturheimi. Fyrst er það, að bygðin er elzta Íslendingabygðin í Canada, og þykir mér vel eiga við, að koma hér með ummæli herra Stefáns Eyjólfssonar, að Garðar, N. Dak., þar að lútandi, í bréfi til mín dagsettu 16. maí síðastl., og í sambandi þar við ummæli hans um Jón Taylor umboðsmann, sem af einlægu hjarta var Íslendingum velviljaður. Ummæli Stefáns eru sem eftir fylgir:

"Það er að mínu áliti þýðingarmikið spor, sem stigið var af Íslendingum, árið sem flutt var fyrst til Nýja Íslands. Það var ætlast til, að það landspláss yrði að aðalóðalstöð Íslendinga í Ameríku. Þegar eg var heima á Íslandi, fjögur seinustu ár mín þar, 1870—1874, var mikið talað um útflutninga og hvar bezt mundi til landnáms í Ameríku. Það var talað um Brazilíu, Canada og ýmsa parta Bandaríkjanna. Og þegar vestur var komið, urðu skoðanir manna mjög skiftar um, hvar verða skyldi aðallandnámsstöðin. Jón Taylor er að mínu áliti maðurinn, sem réði gátuna; hann útvaldi staðinn og hjálpaði af alefli landnáminu. Hann, eins og Dufferin lávarður, hafði trú á því, að framtíð Íslendinga yrði góð hér í landi, og bað til guðs nætur og daga fyrir þeim. En með hverju hafa Íslendingar launað honum? Laun þau, sem honum hefði þótt mest vænt um, eru blessunin, sem leiddi af starfi hans."

Í Nýja Íslandi byrjuðu fyrstu íslenzku ritstörf hér vestan hafs (átt er við íslenzka blaðamensku með stofnun blaðsins "Framfari" 1877), og á sama tíma fyrsta íslenzk kirkjuleg starfsemi hér vestra, og fyrstu barnaskólar. Ungfrú Carrie Taylor, seinna kona Sigurðar Christophersonar (nú í Crescent, B. C.), stofnaði barnaskóla á Gimli veturinn 1875—76, og ber henni viðurkenning fyrir að hafa verið fyrsti kennari hér í landi, sem kendi íslenzkum nemendum ensku og aðrar alþýðuskóla námsgreinar. Hún hafði um það 25 nemendur. Af nemendum, sem á skóla gengu til hennar og maður veit að eru á lífi, eru: Friðrik Sveinsson í Winnipeg, Bogi Jakobsson Eyfjörð, líka í Winnipeg; Gestur Oddleifsson í Geysisbygð og Kristján Helgason í Foam Lake bygð. — Í Nýja Íslandi var í frumbyggjabaráttunni stofnuð sveita- og þingráðsstjórn. Þetta sýndi áhuga frumbyggjanna fyrir viðhaldi íslenzks þjóðernis hér í álfu. Sveitirnar og heimilin hafa íslenzk nöfn, gefin af frumbyggjunum. Hið nú aldurhnigna mikilmenni, Sigtryggur Jónasson, stóð í broddi fylkingar og hvatti til framsóknar í baráttunnni, sem háð var til að ná framfaramarkmiðinu.

Af áhuga fyrir umtöluðu málefni fór eg að hugsa um að gera tilraun til að semja sögu Nýja Íslands, þ. e. landnámssögu og sögu bygðanna, því þó þær séu náskyldar, þá eru þær sitthvað að efninu til. Landnámssagan segir frá, hver nam land þar og þar, og frá merkustu æfiatriðum hans. En saga bygðarinnar frá framförum hennar á því og því tímabili, og sögulegum viðburðum, ef einhverjir voru, viðkomandi bygðinni.

Að eg byrja á Fljótsbygðinni, er af því, að þar eru helzt þeir, sem enn eru á lífi af fyrstu frumbyggjum Nýja Íslands og þar hafa alt af verið, og vildi eg fá upplýsingar hjá þeim, á meðan þess var kostur, og svo er rétt, að sú bygð njóti þess, að þar var í fornöldinni bæði blaðamenskustöð og atvinnustöð Nýja Íslands.

"Framfari" segir frá, að í desember 1877 hafi í Nýja Íslandi verið 300 landtakendur, og að um 200 af þeim hafi þá verið búnir að byggja íbúðarhús. En fljótt kom skarð í töluna. Snemma næsta sumar, 1878, byrjuðu útflutningar til Dakota, og rúmum tveim árum seinna til Argyle, og svo til Þingvalla-nýlendunnar. En fljótt fyltist skarðið aftur, sumarið 1878, þegar útflutningar byrjuðu. Þá byrjuðu aftur innflutningar af 220 Íslendingum, sem komu

til Winnipeg 16. ágúst; fór hátt á annað hundrað til Nýja Íslands. Og næsta sumar, 1879, fluttust inn 57. Eftir það var víst lítið um innflutning til þess 1883, og eftir það hélt landnáminu áfram í mörg ár, eg held fram undir aldamót. Samt er ekki hægt að segja það hér fyrir víst, hvenær það hætti. En það er áreiðanlegt, að í Nýja Íslandi er landnámstímabilið mikið lengra, en í öðrum Íslendingabygðum.

Sumum máské kynni að sýnast, að saga þeirra, sem fluttu burt úr Nýja Íslandi eftir stutta dvöl þar til Dakota og Argyle, tilheyrandi landnámssögum þeirra bygða, þar sem þeir eyddu beztu kröftum sínum og urðu jarðeigendur. En þar eð þeirra hefir ekki verið getið í landnámsþáttum þeirra bygða öðru vísi en það, að þeir hafa verið nafngreindir, og þó langt frá allir, sýnist mér það sanngjarnt, að þeirrra sé getið í landnámssögu Nýja Íslands. Því á meðan þeir voru þar, bjuggu þeir í haginn fyrir þá, sem seinna fluttu þangað; með vegarlagningu af kappi, unnið frá Clandeboye til Íslendingafljóts veturinn 1876—77, og með húsabyggingum og skógarruðningu og gyrðingum, og fleiri umbætur, sem þeir eiga þakkir skilið fyrir.

Winnipeg, 30. júní 1919.

**Þorleifur Jóakimsson** (Jackson).



*Arnljotur B. Olson*





**Sigtryggur Jónasson og frú hans Rannveig Ólafsdóttir Briem.**

**Sigtryggur Jónasson**, aðal frumherji að landnámi í Nýja Íslandi. bóndi á Möðruvöllum við Íslendingafljót frá 1. nóvember 1876 og til þess haustið 1880, — og kona hans, Rannveig Ólafsdóttir Briem, fædd á Grund í Eyjafirði á þriðjudag 2. ógúst 1853, dáin í Winnipeg á mánudag 7. ágúst 1916.

*Arnljotur B. Olson*

# Endurminningar

**frá fyrsta ári Íslendinga í Nýja Íslandi.**

Eftir Stefán Eyjólfsson.

Árið 1874 var all-mikil hreyfing á Íslandi til burtflutnings, og var áhuga-spursmálið hvert flytja skyldi. Faðir minn var einn af þeim, sem hugði til að flytja af landi burt, og stefndi hugur hans helzt til Bandaríkjanna í Norður Ameríku, og var það tilefni þess, að eg flutti þangað, og var áformið að leita uppi sem hentugast nýlendupláss. Eftir eins árs dvöl þar var eg jafn-óráðinn og fyrri í því hvar setjast skyldi að, og hafði þó athugað ýmsa staði. Þá kom sú fregn, að flokkur landa frá Ontario mundi um haustið 1875 flytja til Manitoba í Canada, og var okkur Íslendingum í Milwaukee gefin skýrsla um það með bréfi frá Sigtryggi Jónassyni, sem þá fór heim til Íslands um haustið að leiðbeina fólki til Nýja Íslands. Var frá því skýrt, að landgæði í Manitoba væru með afbrigðum góð, og vesturströnd Winnipegvatns þakin skógi með veiðidýrum og vatnið sjálft fiskisælt, og mundi þar því einkar hentugt pláss fyrir Íslendinga. Nú var mér ljóst, að faðir minn mundi helzt æskja eftir að flytja vestur, þegar hann frétti um þetta tækifæri. Var mér því hugur á, að prófa þetta pláss. En að setjast að í óbygð í vetrar byrjun, var athugavert. Til að bæta úr þessu var skýrt svo frá, að 3 menn hefðu verið settir til þess að setja upp hey á þessu fyrirhugaða svæði fyrir kýr, svo fólkið hefði mjólk, en stjórnin ætlaði að sjá um að fólkið fengi kýrnar. Var það svo mikil bót í máli, að það réði úrslitum með það fólk, sem vissi vel að það gat ekki lifað lengi án mjólkur.

Það var því áformað af nokkrum Íslendingum í Milwaukee, að flytja til Winnipeg-vatns, og lagði hópurinn af stað í september. Ólafur Ólafsson frá Espihóli var aðallega formaður flokksins. Í Duluth biðum við svo fólksins frá Ontario. Var svo haldið til Winnipeg, en ferðin gekk seint, einkum eftir ánum, eftir að járnbraut þraut. Til

Winnipeg var komið stuttu fyrir miðjan október. Þegar þangað kom, fréttum við að landarnir, sem hey skyldu setja upp, hefðu farið í vinnu út, svo ekkert var heyið og alls enginn undirbúningur fyrir móttöku fólksins. Þetta voru hörmuleg vonbrigði. Hér var einn mjög áríðandi hlekkur brotinn í samvinnu fólksins, og hafði það hinar sorglegustu afleiðingar, því eg hygg að manndauði hefði ekki orðið til muna um veturinn, hefði mjólk verið fyrir veikbygt fólk og börn. Nú varð fólkið efasamt um, hvað gera skyldi.

Að miklu leyti var Jón Taylor hvatamaður þess, að Íslendingar fluttu frá Ontario til Nýja Íslands. Hann var nú með fólkinu og leiðbeindi því sem bezt hann gat. Hann sá, að útlitið var ekki gott og alls ekki hættulaust. Hvatti hann því fólkið til að leita sér vista og atvinnu, að svo miklu leyti, sem kostur gæfist á. Óskaði hann, að sem allra fæstir þyrftu að fara út í óbygðina. Eins og kunnugt er, var Winnipeg þá lítill bær og ekki gott um húspláss. Álitið var því, að eini vegurinn væri að halda áfram, búa sig sem bezt út og taka því sem að höndum kæmi. Margir gátu samt orðið eftir og munu það ekki hafa verið yfir 200 manns, sem af stað fóru frá Winnipeg.

Þaðan var löng leið til Nýja Íslands, og varð fólkið sjálft að sjá fyrir þeim flutningi. Til þess voru keyptir flatbátar nokkrir, ferkantaðir, 16 fet á breidd og 32 á lengd, flatbotnaðir með ávölu þaki; voru þessir bátar mikið brúkaðir til flutnings á Rauðá í þá daga, og látnir berast fyrir straumi, en stýrt með sveiflum stórum á báðum endum bátsins. Voru þeir hlaðnir með vörur og fólk, og skipstjóri settur á hvern bát. Dagurinn kom, sem alt var undirbúið; bátarnir lágu við land austur af Notre Dame stræti í Winnipeg, fólkið var að flytja í þá, veður var all-blítt og loft heiðskírt. Seint um daginn var eg staddur á Rauðárbakkanum. Jón Taylor var þar líka og horfði yfir fólkið iðjandi við útbúnaðinn. Eg sá til norðurs, því þangað var nú að fara. Þókti mér sem sorti nokkur hylja norðrið og segi við Taylor: "Nú er hann hann dimmur í norðrinu." Taylor lítur til mín, var hljóður um tíma, en segir svo: "Nú er loft fagurt, og sé eg ekki hvar þú myrkur lítur, eða mun þig hug bresta til fararinnar; ef svo er, þá er enn tækifæri til að verða eftir, og hefi eg áður hvatt þig og aðra, sem eftir geta orðið, til þess." — "Ekki mun eg eftir verða," svaraði eg. Loftið var að vísu

vísu fagurt, en dísir framtíðarinnar höfðu myrkvað mér sýn. Neðar á bakkanum sat maður og lítur í gaupnir sér. Það var skáldið, sem einnig leit inn í komandi tímann.

Nú lagði hinn fyrsti bátur frá landi út á ána, og var að sjá til, er rökkva tók, sem árablöð væru úti á alla kanta og í loft upp líka. Þar með fylgdi hávaði nokkur, er sinn vildi hvað, og var báturinn þar með dubbaður nafninu "Vitfírringur"; því kvað skáldið:

Fram á víðan fiska byng,
frekt við klýðar steina,
sízt við kvíðir svívirðing,
Siggi ríður "Vitfirring."

Hér var nú dregið út á djúp markverðra tíma, þar velta varð úr vegi svo stórum steinum, svo nær viti fjær mátti álítast að reyna það. En það var langt frá því, að menn væru kvíðandi; ekki var efast um sigurinn.

Svo lögðu út hinir bátarnir og sigu allirfyrir straum niður ána þá nótt og næsta dag til kvölds. Oft hafði strandað á steinum og grynningum, og voru nú hver í sínu lagi. Þá lögðum við okkar bát að landi til að bíða hinna, er allir voru á eftir. Everett Parson stýrði okkar bát. Næsti bátur, sem kom, strandaði á steinum nokkuð frá okkur og gátu piltar ekki losað hann. Everett sagði mér að leggja þeim ráð, er hann tiltók, og gerði eg það, en fékk svarið forna: "gættu smíða þinna"; svo þeir rogguðu þar til myrkurs. Þá tóku þeir ráðið og losnuðu fljótt, en viltust þá á grynningar, hvar straumur festi þá æ meir og meir, og sátu þeir þar þá nótt og næsta dag, þar til síðla að eg með nokkrum mönnum losaði bátinn. Mennirnir, sem bátstjórinn lét mig hafa, unnu sumir með þóttafullri ilsku og klaufalega. Sá liður af verkinu, sem eg hafði sjálfur, var hættulegur, og varð eg á augnabliki staddur í lífsháska, sem eg var eins snögglega hrifinn úr á mér óskiljanlegan hátt, eins og af æðra krafti. Nú voru allir bátarnir komnir saman og flestir við land. Það var sunnudagur og kallaði Taylor fólkið saman til guðsþjónustu, er hann hélt við bát sinn. Skýrði hann síðan frá, að hann fengi kunnugan mann til að stýra bátunum ofan fyrir grynningarnar daginn eftir, og svo tæki gufubátur þá ofan til hafnar á vatninu. Þar lentum við svo tveim dögum seinna, því nú var einhuga stjórn á flutningi.

Eg varð þess áskynja, að Taylor varð erfitt með stjórnsemi á fyrirkomulagi, og gat ekki komið því fyrir

eins og hann áleit bezt, en ekki hafði hann samt orð á því svo eg vissi, þó honum liði ekki sem bezt, því hann hafði einlægan áhuga og vilja fyrir velferð Íslendinga.

Nú var komið á nýlendusvæðið, og fyrst var nú að koma upp skýlum yfir fólkið, sem bygð voru úr trjábútum og bjálkum. En nú tók tíðin að versna. Fyrsti nóvember byrjaði með illveðrum. Svo þegar byggingum var lokið, var vatnið frosið, og ekkert fiskaðist, og ekki varð heldur bjargræði að dýraveiðum af ástæðum, sem eg hefi á öðrum stað getið. Samganga við bygðir var hálf ófær, vegna snjóþyngsla og vegleysu. Menn höfðu álitið, að takast mætti að ná frosinni mjólk og fersku kjöti frá mannabygðum, ef annað brygðist, en það brást líka.

Eftir nýár fór matarforði að verða lítill, og þó reynt væri að flytja mat til fólksins, gekk það svo illa, að fólk fékk ekki það sem nauðsynlegt var. Eitt sinn kom eg með fisk-handæki til Gimli, sem eg hafði veitt í Rauðárósum, 30—40 pike-fiska. Taylor sagði eg yrði að láta fólkið hafa mest af fiskinum, því sumt væri alveg matarlaust. Fékk hann mér peninga úr sínum vasa fyrir, og sagði til, hvar þörfin væri mest. Mikið var veitt af kanínum (rabbits) og hjálpaði það mikið, en fiskiveiði í Rauðárósum þoldu menn ekki, því þar var hvorki skjól né skýli.

Eitt sinn er eg sat til fiskjar í árósunum, kom Magnús Stefánsson þar ofan frá Selkirk og hafði molasykurtunnu í handæki, er hann sagðist fara með fyrir Friðjón. Eg sagði honum, að nær mundi vera, að færa matvöru til fólks. Hann sagðist ekki geta mikið einn; menn væru ófáanlegir til flutninga, og mun það satt verið hafa, sundrungin var afar-mikil. Það vantaði framtakssama stjórn meðal fólksins. Nú var ekki Sigtryggur til að hvetja til framkvæmda. Hann vantaði; var úti á Íslandi.

Ef að nú hefði verið hey til, eins og ætlast var til að yrði í fyrstunni, hefðu líka kýr verið til meðal fólksins og uxar einnig, þá hefði vegur verið lagður að eg hygg og flutningur gengið greiðar, og þar með hættunni afstýrt.

Undir vorið fór fólk að veikjast af skyrbjúg og ýmsum kvillum. Einn maður misti 7 börn sín af 9, þrír dóu í húsinu, sem eg var mest í, hjá Ólafi Ólafssyni. Alls dóu að eg hygg 35 eða 36 um veturinn og vorið, og sumir seinna, af sömu orsökum. Af um hundrað manns, sem eftir voru í nýlendunni fyrsta apríl, því flestir, sem gátu, fóru upp til bygða þá er þeir sáu, hverju fram fór, nálægt því þriðji

hver maður talsins af þeim sem eftir voru, dó, flest börn og veikbygt fólk. Þetta var því mesti hörmungavetur fyrir Nýja Ísland. Sá *næsti* (bóluveturinn) ekki nærri eins, þó sorglegur væri. Þá var komið fjör í framkvæmdir. Sigtryggur var *nú* kominn, vegur lagður, flutningur greiðari og vörubbyrgðir *mikið* betri. Við tiltölu af fólksfjölda dó miklu færra en fyrri veturinn.

Hin fyrsta og aðal varanlega bygð Íslendinga í Ameríku varð því að ganga í gegn um þá eldraun, sem oft hefir verið hlutskifti annara nýbyggja. Að þriðji hver maður falli í valinn, er all-harður bardagi, og er atriði, sem sagan skyldi ekki sleppa, hver svo sem orsökin er. Eg hefi áður minst á vonbrigðin, sem fólkið varð fyrir, þegar það kom til Winnipeg. Við það kom ruglingur á framkvæmdir manna, og hver fór meir að hugsa um sig sjálfan eingöngu. Þannig varð það, að flest vinnandi fólk annað hvort varð eftir í vinnu eða fór úr Nýja Íslandi um veturinn upp til bygða, og eftir varð að mestu fólk, sem ekki gat hjálpað til að flytja að matarforða. Það var sundrung og stjórnleysi, sem var orsökin. Vörur voru til nógar í Winnipeg, sem stjórnin var fús að leggja til, og Jón Taylor, sem hafði allan vilja á að ná þeim, gat ekki fengið landann til að gjöra verkið, réði ekki við fólkið. Þeir menn, sem færir voru til verka, færðust undan því að taka að sér að flytja inn matvæli, og afleiðingin varð eðlileg undir kringumstæðunum.

Nú hefi eg stuttlega athugað hið erviða og sorglega við stofnsetning nýlendunnar. En þar er líka önnur hlið þess málefnis. Það er stofninn, sem myndaðist við eldraunina. Hinn hreini málmur kemur í ljós, samhygð, velvild, kjarkur, styrkleiki og þol er einkenni þeirra, sem bygðu nýlenduna upp. Þaðan dreifast út margir af hinum betri mönnum þjóðar vorrar í þessari álfu. Dr. Jón Bjarnason sagði, að frá Nýja Íslandi kæmu flestir okkar ungu, góðu námsmenn, og hvað eigin reynslu viðvíkur, þá er hún sú, að hinir gömlu Ný-Íslendingar eru mér allra manna bezt vinveittir. Okkar samúð og vinátta margfaldaðist við erviðleikana á nýbyggjara-árunum, og hefir viðhaldist síðan. Hinn trausti grunnur var þar bygður á varanlegu bjargi, sem gefur framtíðinni ómetanlegan styrk.

---

## Feraðasaga Ameríkufara frá Sauðárkróki til Nýja Íslands Sumarið 1876.

Eftir **Jóhann Briem.**
(Tekið úr "Framfara")

---

Árið 1875 fluttu því nær engir af Íslandi til Ameríku. Um haustið það ár, um sama leyti og Íslendingar frá Ontario lögðu af stað til Nýja Íslands, sendi yfirstjórn Canadaríkis tvo umboðsmenn til Íslands, að bjóða þeim, er hugðu að flytja af landi burt, land í hinu Nýja Íslandi og útvega þeim, er fara vildu, far, og sjá til með þeim á leiðinni. Umboðsmenn þessir voru W. C. Krieger og Sigtryggur Jónasson. Hinn fyrnefndi kom til Íslands í október, en hinn síðarnefndi í desember 1875. Ferðuðust þeir víða um Ísland um veturinn 1875—76. Gerðu þá nokkrir ófrjálslyndir embættismenn og fleiri, er þeirra taum drógu, allmargar og miður heiðarlegar tilraunir til að hindra útflutninga. En það kom fyrir lítið, því sumarið eftir fluttu í alt frá Íslandi til Ameríku hátt á tólfta hundrað manns. Fluttist fólk þetta í þrennu lagi frá Íslandi. Fyrst lagði af stað frá Sauðárkróki, með gufuskipinu Verona flokkur fólks, á föstudag 30. júní; þá voru um borð 740 manns. Frá Akureyri fóru menn alfarnir á sunnudag 2. júlí. Þá höfðu bæzt við 12 frá því menn fóru frá Sauðárkróki, alls 752 manns. Hópurinn kom til Granton á fimtudag þ. 6. s. m. og fór þaðan tafarlaust til Glasgow. Frá Glasgow fór flokkurinn á þriðjudag þann 11. með Allanlínu skipinu "Austria" og komst farsællega til Quebec á laugardag 22. júlí. — Hartnær helmingur þessa fólks hafði ákvarðað að fara til Nýja Skotlands, þrátt fyrir að stjórnin þar hafði gjört mönnum aðvart um, fyrst á Íslandi og svo í Glasgow, að hún eigi hefði kringumstæður til að taka á móti nema fáum fjölskyldum. En á leiðinni upp St. Lawrence fljótið kom umboðsmaður stjórnarinnar í N. S. út á skipið, og réði af sömu ástæðum ekki nema fáum til að flytja þangað. Var með umboðsmanninum Íslendingur, Ólafur Brynjélfsson[1] frá Bólsstaðarhlíð, er dvalið hafði um hríð í Nýja

---

1) Hann var bróðir þeirra Skapta og Magnúsar lögmanns Brynjólfssona, sem nú eru látnir.

Skotlandi. Lét hann dauflega af ástandi landa þar, sökum atvinnu- og fiskileysis, og flutti jafnframt bréf, undirritað af 10 Íslendingum, sem þar voru, sem fastlega afréðu innflytjendur þessa af að fara til N. S. — Þegar svona var komið, bauðst yfirstjórnin til að taka þá, er ákvarðaðir voru til N. S.; af höndum stjórnarinnar þar, og gefa þeim sömu kjör og hlunnindi og hinum, er ákvarðaðir voru til Nýja Íslands, bæði á ferðinni og eftir að þangað væri komið. Tóku allflestir fúslega tilboði þessu, og fóru að að eins 7 menn til N. S. Að öðru leyti fór flokkurinn í heild sinni frá Quebec sunnudaginn 23. júlí, með járnbraut vestur eftir, og kom til Toronto þ. 24. Dvaldi flokkurinn þar til hins 27., að hann fór með járnbrautum til Collingwood og Sarnia, en þaðan þ. 28. með gufuskipum norðvestur eftir vötnunum Huron og Superior. Sameinaðist hann aftur í Duluth á þriðjudagskvöld 1. ágúst, en fór þaðan með járnbraut þann 3. og komst til Fisher's Landing þann 4. Þaðan var farið daginn eftir norður eftir Rauðánni á gufubát, ásamt tveim öðrum stórum bátum, er tengdir voru sinn við hverja hlið gufubátsins, og komust menn þannig til Winnipeg á þriðjudag 8. ágúst, kl. 6 að kvöldi.

Í Winnipeg var dvalið til hins 13. kl. 3 e.m., að lagt var af stað ofan eftir Rauðá áleiðis til Nýja Íslands. Ekki varð komist nema skamt á leið þann dag. Það var verið um kyrt á ánni um nóttina, lagt svo snemma af stað næsta morgun þ. 14. Flutningsskipin voru 6 stórir bátar með kassa lögun, er stjórnin hafði látið gjöra handa þessum nýkomnu innflytjendum, og svo voru smábátar með. Var straumurinn látinn hjálpa til að bera þessi för ofan eftir ánni, en smábátunum róið. Þ. 16. fóru menn fram hjá Crossing (Selkirk). Ekki varð komist ofan í ármynnið fyr en þann 17., og sökum mótbyrs á Winnipeg-vatni voru menn ekki komnir að Gimli fyr en þ. 20. á sunnudag.

Í ármynninu urðu menn að skilja eftir stóru bátana og meiri partinn af flutningnum. Það sem eftir var af ágúst gekk til þess að koma flutningnum úr ósunum ofan að Gimli.

Margt einhleypt fólk úr þessum hópi, ásamt nokkrum fjölskyldum varð eftir í Winnipeg og fékk sér þar atvinnu.

---

**Ferðasaga Austurlandshópsins, frá Seyðisfirði til Nýja Íslands. — Rituð eftir minni.**

Á miðvikudagskvöld 12. júlí fóru frá Seyðisfirði með gufuskipinu Verona nærri 400 Ameríkufarar. Túlkur þeirra var hr. Halldór Briem, sonur Eggerts Briem sýslumanns í Skagafjarðarsýslu. Skipið kom til Granton næsta sunnudagsmorgun þ. 16.; til Glasgow var farið með járnbraut sama dag.

Það var byrjað að byggja Glasgow-borg árið 560 e. Kr. Fyrsta húsið var lítil kirkja. Svo liðu aldirnar, að lítið bar á borginni. Árið 1707 fór hún að taka framförum með verzlunaraukning og skipabygging. Árið 1911 er fólkstala í Glasgow 484,455.

Einn dag, meðan dvalið var í Glasgow, fór Victoria drotning þar í gegn með miklu skrauti. Hún var þá að byrja að koma á ný fram á sjónarsviðið eftir að hafa dregið sig í hlé síðan Albert maður hennar lézt 1861—í 15 ár.

Lagt var af stað frá Glasgow til Ameríku um kl. 12 á fimtudaginn þ. 20. Ferðin gekk vel yfir hafið. Fólk reyndi að gera sér ýmislegt til ángju. Það var lesið á sunnudögum og sungið. Líka dansað og glímt suma daga. Þeir sem bezt stóðu sig í glímum, voru Árni Sveinsson og Þórður Þorsteinsson úr Breiðdal, Sigurgeir Björnsson frá Haga í Vopnafirði, og Sigurjón Jónsson frá Hjarðarhaga á Jökuldal.

Til Quebec var komið nærri miðjum degi á mánudag þ. 31. Íslenzk kona dó skömmu áður en lent var; hét Gróa, kona Jóns Ásmundssonar úr Fáskrúðsfirði, á St. Lawrence fljótinu var eins og fyr aðvörun send um borð þeim, sem ætluðu til Nýja Skotlands, að hætta við það.

Í Quebec var fyrir hr. Ólafur Brynjólfsson, sem áður er getið, og fylgdist hann til aðstoðar hr. Halldóri Briem með hópnum til Toronto.

Það var byrjað að byggja Quebec-borg, þó í smáum stíl væri, árið 1608. Merkilegur viðburður í sögu Canada er tengdur við Quebec. Á hinum svokölluðu Abrahams-hæðum unnu Englendingar sigur á Frökkum í orustu, sem háð var fimtudaginn 13. september 1759. Frá þeim tíma teljast yfirráð Englendinga yfir Quebec-fylki og öllum norðurparti Ameríku.

Í þessari orustu voru hershöfðingjar, yfir Englend-

ingum Wolfe James, fæddur í Westerham á Englandi 2. janúar 1727, en yfir Frökkum sá er Montcalm hét, fæddur nálægt Nimes á Frakklandi 28. febrúar 1712. Báðir þessir menn létu líf sitt í orustunni. Sagt er að Wolfe, þegar hann að dauða kominn lá á vígvellinum, heyrði einhvern segja: "Þeir hlaupa", þá hafi hann spurt: "Hverjir?" Honum var svarað: "Frakkar." Þá sagði hann: "Guði sé lof, þá dey eg ánægður." Hann andaðist samdægurs, en Montcalm næsta morgun þann 14. september. Báðum þessum mönnum voru reistir minnisvarðar í Quebec. Líka er á Englandi minnisvarði tileinkaður Wolfe, í Westminster Abbey kirkju í Lundúnum.

Varaðir vorum við innflytjendurnir af túlkunum við að láta ekki ginna okkur inn í vínsöluhúsin í Quebec hæðunum. Vínsalaþjónarnir stóðu í dyrum og buðu okkur mjög vinalegir að koma inn og þiggja ölkollu.

Seint um kvöldið var lagt af stað frá Quebec með járnbrautarlest til Montreal, sem er um 180 mílur suðvestur af Quebec. Frakkar byrjuðu að byggja þá borg árið 1642, og kölluðu Ville Marie de Montreal. Svo náðu Bretar henni árið 1760, en töpuðu henni í frelsisstríðinu, og náðu henni á ný 1777; höfðu þeir hana fyrir stjórnaraðsetur Quebec-fylkis frá 1844 til 1849, að það var aftur flutt til Quebec.

Til Montreal var komið um miðjan dag á þriðjudag 1. ágúst og etinn þar dagverður, og svo haldið af stað og komið til Kingston í Ontario seint um kvöldið. Þar var stigið af vögnunum, gengið inn í stóran sal og sezt að kvöldverði. En þá kom það upp, að veitingamaður vildi fá borgun sína strax; vildi ekki bíða eftir að stjórnin borgaði honum. En þannig var máli þessu varið, að ætlast hafði verið til að menn hefðu kvöldverð í öðrum bæ, áður en komið væri til Kingston. En af einhverri orsök gat það ekki orðið, svo kvöldverðurinn var pantaður í Kingston. Út af þessu varð orðaþras á milli veitingamannsins og túlkanna, og þegar fólkið var komið út urðu þeir eftir inni og borguðu fyrir matinn. En þá þótti einum, sem var í förinni, túlkunum dveljast nokkuð lengi inni, hugði þeim mundi verða sýnt ofbeldi, svo hann hratt upp hurðinni með fætinum, sxo að húsbóndinn, sem stóð við hana, féll á gólfið. Fallið var þungt, því karl var feitlaginn, og eins var kona hans, sem varð nú ófrýnileg á svip, og bað Ólaf Brynjólfsson að sjá um, að þessi ilsku-hópur, sem hún ósk-

aði alls hins versta, kæmist sem fyrst í burtu. — Til Toronto var komið kl. 12 næsta dag o gfarið þaðan um það kl. 10 daginn eftir.

Í Toronto voru fáeinir Íslendingar, sem fluzt höfðu af Íslandi 1873 og 1874, og þótti mönnum ánægja af að tala við þá.

Aldur Toronto-borgar telst til 1794, var kölluð York (Jórvík) til þess 1834, að nafninu var breytt í Toronto; varð hún höfuðstaður Ontario fylkis 1867.

Að kvöldi fimtudagsins 3. ágúst, sem farið var frá Toronto, var komið til Collingwood og strax stigið á skip, sem flutti menn til Duluth. Þar var komið á mánudagskvöld 7. ágúst. Þrengsli mikil voru á skipinu. Svín og sauðfé voru á því og sumir einhleypir menn urðu að sofa uppi á heyböggum, sem ætlaðir voru til fóðurs handa kindunum. Neyzluvatn fór þá að versna og margir að kenna til magaveiki.

Ekki hafði Bandaríkjunum verið glæsilega lýst fyrir sumum í hópnum, því sá sem ritar, man, að kona sagði skömmu áður en lent var í Duluth: "Nú komum við á land í Bandaríkjunum, og þar er sagt að séu þjófar og ræningjar."

Margir innflytjendur af Mennonítum voru fyrir í Duluth, þegar Íslendingar komu þar. Þeir byrjuðu árið 1871, þegar Alexander annar Rússakeisari svifti þá herþjónustu undanþágu-réttindum sínum, að flytja til Bandaríkjanna og seinna til Canada.

Í Duluth var verið þar til á laugardagsmorgun þann 12. ágúst. Þá var lagt af stað með járnbraut vestur eftir Minnesota-sléttunum til Fisher's Landing, þorps, sem stóð við Rauðá. Vel leizt sumum á fögru, grösugu slétturnar, og sögðu, að gott hefði verið að mega setjast þar að.

Seint um kvöldi stanzaði lestin, var þá komin á enda járnbrautarinnar, en lestarstjórinn lét ekki túlkinn vita, að þangað væri komið, svo menn biðu í vögn unum um nóttina í óvissu um hvar þeir væru og hvað við þá yrði gjört næsta morgun.

En þá, þegar fullbjart var orðið, sást, að ofurlítinn spöl fram undan þar sem lestin stanzaði, var þétt skógarbelti. Unglingspiltur sást koma út úr því og stefna út á sléttuna. Halldór Briem talaði til hans og spurði, hvar í landi við værum. Pilturinn sagði, að hinum megin við skóginn væri þorpið Fisher's Landing, og von væri á gufu-

bát frá Winnipeg um daginn að sækja innflytjendur. Nú fóru menn að hafa sig á kreik úr vögnunum, og sumir gengu vestur fyrir skógarbeltið að skoða sig um í þorpinu.

Þó að sunnudagur væri, voru vínsöluhús opin, og einn maður var gintur þar inn og dvaldist honum þar til þess í myrkri um kvöldið að hann ásamt gömlum manni, sem var í drykkju félagi með honum um daginn, komust mjög miður sín út í vagnana. En svo, þegar runnnin var af honum víman, sá hann, að hann hafði verið ræntur nærri öllum peningum sínum, 25 pundum sterling. Báðir þessir menn létust úr bóluveikinni, skömmu eftir að þeir voru seztir að í Nýja Íslandi.

Um miðjan næsta dag, á mánudag 14. ágúst, var lagt af stað frá Fisher's Landing til Winnipeg. Á þeirri leið fór sumt af fólki, einkum börn, að kenna lasleika. Neizluvatnið olli sárum innankvillum.

Það var á fimtudagsmorgun, 17. ágúst, að komið var til Winnipeg, litla bæjarins, sem þá var orðinn sex ára gamall. Saga Winnipeg-bæjar byrjar 1870; þá töldust í þorpinu og grendinni 200 íbúar.

Sá fyrsti Íslendingur, sem þessi hópur hafði tal af í Winnipeg, var Friðjón Friðriksson. Hann talaði um tíma við Halldór Briem, áður en fólkið gekk í land.

Það var verið í Winnipeg það sem eftir var vikunnar; tímanum var varið til að kaupa ýmsar nauðsynjar, sem til bús þurfti. Að áliðnum laugardegi var lagt af stað ofan Rauðá. Það mátti heita, að ferðin gengi vel alla leið til Gimli. Sumir fóru ekki alla leið þangað, en settust að í suðurparti nýlendunnar.

---

## Þriðji innflytjendahópurinn í Nýja Íslandi, sem kom að heiman 1876. — Um slysfarir frá ágúst 1876 til september 1877.

Eftir **Jóhann Briem.**

Þriðji og síðasti hópurinn, sem fluttist af Íslandi 1876, um 20 manns, var af Suðurlandi. Túlkur var hr. Ólafur Guðmundsson frá Arnarbæli í Ölvesi. Hann hafði áður dvalið hér í landi tvö ár, en fór heim aftur 1874.

Þó að ferðin frá gamla Íslandi til Nýja Íslands gengi seint, gat ekki heitið hún gengi stórilla; þó margt væri að

ýmsu, sem alt mátti kalla að orsakaðist af þrengslum á skipum og vögnum, sem og af óvanalegu fæði, er olli megnri magaveiki, sérílagi í börnum, sem talið er að leiddi 30 til 40 til dauða; 11 úr fyrsta hópnum voru dáin áður en komið var til Winnipeg. Þau slys komu fyrir á leiðinni, að tveir menn duttu útbyrðis af bátum á Rauðánni og drukknuðu. Annar var Pálmi Jónsson úr Skagafirði, aldraður og hrumur maður. Hann var skáldmæltur og fróður vel og fékst talsvert við homöopatiskar lækningar. Hinn maðurinn var með síðasta hópnum, ættaður úr Skagafirði, Sigurður Hjálmarsson að nafni, ungur og efnilegur; hafði numið trésmíði og bar í því sem fleiru af jafnöldrum sínum.

Seinna urðu þessar slysfarir meðal Íslendinga: 6. september 1876 lézt Jón Þorkelsson frá Klúku í Hjaltastaðaþinghá, af banvænni rót, sem hann át, áleit hún væri hvannarót, sömu tegundar og sú, sem óx í fjallahlíðum á Íslandi. Þorsteinn Sigfússon, frá Hvammi í Möðruvallaklaustursssókn, lærbrotnaði af því að tré féll á hann. Seint á vetrinum 1877 varð gömul ekkja úti á Winnipeg-vatni, að nafni Anna Guðmundsdóttir, frá Steðja á Þelamörk. Líka mátti það teljast með slysförum, að í desember 1876 skaðkól tvo menn úr Mikley, er voru á ferð frá Gimli í grimdar veðri; voru þeir votir í fætur, viltust og lágu eða voru úti á þriðja dægur. Mistu þeir báðir framan af fótum, annar báðum, en hinn öðrum. Snemma í ágúst 1877 druknaði í Winnipeg-vatni unglings piltur, Hjörtur Jóhannsson að nafni, ættaður af Vatnsnesi; var hann að æfa sig í sundlist og mun hafa fengið krampa. Snemma í september druknaði og í Winnipeg-vatni ógiftur maður, Valdemar Sigmundsson, úr Þingeyjarsýslu; atvikaðist það á þann hátt, að hann féll útbyrðis úr skipi og varð ekki náð, þar það var á siglingu.

---

## Tíðarfar í Nýja Íslandi frá vetrarkomu 22. oktober 1875 til vetrar 1877, 26. október.

Eftir **Jóhann Briem.**

---

Þegar með inngöngu vetrar 1875—76 byrjuðu frost og snjóar, og hélzt allhörð veðurátta allan veturinn út. Mun frost hafa orðið mest 36—38 stig á Ream., en snjór

orðið full 3 fet á dýpt, lítinn tíma í marz. Með byrjun apríl fór snjóinn að leysa af sólbráð og var alveg tekinn upp um sumarmál, 20. apríl. Frá þeim tíma voru að mestu leyti stöðug blíðviðri, með litlum úrkomum, til þess 21. ágúst, að undanskildu dálitlu kuldaskoti, er kom í byrjun júní. Með 21. ágúst skifti nokkuð um tíð, þannig, að úrkomur gjörðust tíðari og komu fyrir heilir rigningardagar með norðan-belgingi, sem voru annað veifið þann mánuð út. September byrjaði með blíðviðri, og var sá mánuður í það heila tekið þur og hagkvæm tíð. Með byrjun október fór að verða vart við töluverð næturfrost. Að öðru leyti voru stilt og hagkvæm veður til hins 7., að kuldakast kom með jeljagangi á norðan í 2 til 3 daga, og fölgaði þá lítið eitt. Héldust talsverð frost fram um miðjan mánuðinn, svo byrjaði að sjá á grasi og lauf trjánna visnuðu alveg. Um sama leyti byrjaði hvítfiskganga, og um þann 12. fór hann að aflast að mun. Um miðjan mánuðinn komu enn blíðveður, með talsverðum hita um daga og frostlaust um nætur, sem hélzt til þess 22. Er þessi blíðviðrakafli sagður varanlegur um þann tíma og kallast "Indian" sumar. Þann 22. (annan vetrardag) kom kuldakast með talsverðum norðanvindi, sem hélzt 3—4 daga, með jelja-hraglanda einn daginn; en þá birti upp með kyrrum og heiðríkjum og dálitlu næturfrosti. Hélzt sú tíð til loka október.

Hvað hið síðara árið snertir, segir höf., þá hefi eg mína eigin reynslu á því öllu. Eg vil því skýra nákvæmar frá veðráttufari yfir hvern mánuð.

Veturinn byrjar, eins og allir vita, seinni hluta október, en þar eg hefi að framan drepið á tíðarfar til loka þess mánaðar, byrja eg með næsta mánuði.

Nóvember byrjaði með þykkviðri og vægu frosti. Þann 3.—4. fölgaði lítið eitt; 5.—12. bjartviðri og talsvert næturfrost. Þá kom hríðarskot og frost jókst. Íslendingafljót lagði nóttina til þess 12., en vatnið um þann 16. Frá þeim 12. til 23. var hægviðri og eigi mikil frost, en snjóaði talvert við og við, svo þá var kominn 15—18 þuml. djúpur snjór í skóginum; þá birti upp og var gott, og enn frostlítið í þrjá daga; en úr því herti frost og hélzt með bjartviðri til mánaðarlokanna. Þá varð mest frost 15 stig á R. (meðalfrost yfir daginn 10 á R.), en hiti varð mestur þenna mánuð 4 stig á R. (meðalhiti yfir daginn 2 st. á R.)

Desember var bjartur, staðviðrasamur og snjókomulaus; oftast frostharður, en þó komu nokkrir frostlinir

dagar. Mest varð frost 30 stig (meðalfrost þann dag 25 stig), heitast 2½ stig (meðaltal: frostlaust).

Janúar byrjaði og með stillingum og bjartviðri, sem hélzt til þess 6. Þá kom allmikið veður, með miklum snjóburði; féll þá viðlíka snjór og fyrir var, svo snjórinn var að samtöldu hátt á þriðja fet í skóginum. Það varð snjór dýpstur á vetrinum. Daginn eftir birti upp með miklu frosti og héldust bjartviðri, mikil frost og stillingar til þess 23., að loft þykknaði, og fór þá að draga úr frosti og var frostlint og bezta veður frá 25. til loka ánaðarins. Mest frost varð 35 stig (meðaltal þann dag 28 st.). Hiti varð 12 stig þann 28., en meðaltal þann dag 6 st. hiti.

Febrúar byrjaði með sömu góðviðrum, heiðríkju og mildu, og var um lok janúar; var oft hiti um daga, en næturfrost. Þann 12. var hríðar-hraglandi með nokkru frosti, en þá brá aftur til sömu stillinga og góðviðra og verið höfðu, sem héldust mánuðinn út. Snjór seig í febrúar allmikið af sólbráði, enda var sólargangur orðinn 9½—10½ kl.stundir. Hiti varð mestur 13 stig, en meðaltal þann dag var 4 stiga hiti.

Marz byrjaði með bjartviðri, meira frosti, en stillingum. Þann 6. var allmikill frostvindur; bjartviðri héldust til þess 12., að hríðarveður gjörði, er hélzt fram á næsta dag. Það eftir var mánaðarins var jafnan bjartviðri, en næðingar og talsvert frost, nema þann 31. bleytufjúk. Mest varð frostið 28 stig (meðal-frost þann dag 19 st.). Hiti varð mestur 9 stig, en að meðaltali var hiti þann dag 4 stig.

Apríl byrjaði með hríðar-hraglanda, en næsta dag var bjartviðri og nokkurt frost, og hélzt það veðurlag til þess 8., að verulega fór að hlýna; voru frá þeim degi viðvarandi sólskin og hitar um daga, en frost lítil um nætur og var snjór alveg horfinn þann 19. (sumardaginn fyrsta). Þann dag leysti og ísinn af Íslendingafljóti. Frá þeim 8. til þess 23. var hiti talsverður að meðaltali á hverjum degi, en þann dag var bleytuslettingur með ofurlitlu frosti. Það sem eftir var mánaðarins, voru stillingar og hlýtt um daga. Mest frost varð þann 6., 14 stig (meðalfrost þann dag 7 stig). Hiti varð mestur þann 20., 18 stig, en meðal-hiti yfir þann dag var 15 stig.

Maí byrjaði með sólskini og talsverðum hitum, er hélzt til hins 5., að stórrigning kom. Var það hin fyrsta rigning á vorinu; þá var gras farið að spretta og skógur fór að

laufgast. Úr því voru bjartviðri og hitar til þess 14., og 16. kom fyrsta þrumuskúrin. Um þann tíma var hveiti fyrst sáð; þá hvarf og ís alveg af vatninu. Þann 19.—20. var þykt loft og rigning. Það eftir var mánaðarins var stöðugt sólskin og hitar, nema þann 30. og 31., að rigndi allmikið. Mestur hiti varð 23 stig (meðaltals hiti þann dag 19 stig). Minstur hiti varð þann 1., 2 stig, en meðalhiti þann dag var 5 stig.

Júní byrjaði með regnskúrum, sem héldust tvo fyrstu dagana; þá var að mestu leyti þurt og hlýtt til þess 8, er bleytu-él gjörði og var ofurlítið frost um nóttina. Svo var þurt til þess 12., en þá rigndi og úr því var meiri og minni rigning annan og þriðja hvern dag alt til loka mánaðarins. Nóttina til hins 15. gætti frosts seinast á vorinu. Mestur hiti varð 21 stig (meðalhiti þann dag 15 stig); minstur hiti var þann 8., 2 stig, en meðalhiti 8 stig.

Júlí byrjaði með sólskini og sterkum hitum, er héldust til þess 6.; þá gjörði þrumuskúr. Svo voru aftur hitar og sólskin til þess 13., en þá var úrfellasamt til hins 18. Frá því voru stöðugir þurkar og sólskin til hins 27. Úr því voru skúra-áleiðingar til loka mánaðarins. Mestur varð hiti þann 21., 27 stig, en meðalhiti þá 10 stig.

Ágúst var yfir höfuð þurkasamur og tíð hagkvæm. Að eins rigndi til muna þann 10., 12. og 20. Mestur hiti varð 27 stig (meðalhiti þá 20 stig); minstur hiti varð 6 stig, en meðalhiti þá 8 stig.

September byrjaði með ofurlitlum frostkælum um nætur, en sólskini og hita um daga. Fór þá að sjá á garðurtagrasi og það úr því að falla. Svipað veðurlag og var í byrjun mánaðarins hélzt til þess 13., en frá þeim degi til hins 18. voru við og við skúra-áleiðingar. Það sem eftir var mánaðarins, var þurt og bjart veður, en næturfrost við og við. Mestur hiti varð 19 stig (meðalhiti þá 17 st.); minstur hiti varð 0, en meðalhiti þann dag 8 stig.

Október byrjaði með stillingum, töluverðum næturfrostum, en sólskini og nokkrum hita um daga. Varaði þetta veðurlag til hins 20.; þó voru næturfrost mismunandi, og þann 3. kom ofurlítið hríðarél, en 12. rigndi ögn. Á þessu tímabili tóku menn alment upp úr görðum; þá var gras sölnað og lauf fallið af trjám. Þann 20. byrjaði hið svonefnda "Indíánasumar", og voru sífeldar kyrrur, mistur í lofti og þvínær frostlaust um nætur. Hélzt þetta veðurlag til sumarloka, 25. október, og var því jörð þá mar-

þíð og snjólaus. Mestur hiti varð 20 stig (meðalhiti þann dag 12 stig); kaldast varð 2 stiga frost, en meðalhiti þá 2½ stig.

Hér endar skýrsla hr. Jóhanns Briem um tíðarfarið í Nýja Íslandi yfir fyrstu tvö árin þar. Skýrslan er mjög greinilega úr garði gjörð og samanber við það se mað sá, sem ritar, man eftir tíðarfarinu á umtöluðu tímabili.

Frá bóluveikinni, sem gekk í Nýja Íslandi frá því í september 1876, til þess í marz 1877, segir hr. Jóhann Briem greinilega í "Framfara". Þó sýnist þeim, sem þetta ritar, ekki þörf á að gera afskrift af því, þar eð sá kafli úr sögu Nýja Íslands er ritaður í landnámssöguþætti Nýja Íslands 1899. En þó skal þess getið hér, sem þar er ekki getið og ekki heldur í "Framfara", að túlkar á milli sjúklinganna og læknanna voru Magnús Stefánsson, úr Kelduhverfi, frændi Ólafs sál. Ólafssonar frá Espihóli, og Kristján Jónsson frá Héðinshöfða, nú fyrir skömmu látinn. Magnús var líka með W. Drever sem túlkur og til aðstoðar við sótthreinsunina, sem gjör var í Nýja Íslandi í júní mánuði 1877.

Læknirinn, sá fjórði sem kom til nýlendunnar litlu áður en þeir þrír fóru þaðan, og dvaldi þar til þess í júní, gaf þeim, sem höfðu fengið bóluna og leita vildu burtu úr nýlendunni, fararleyfi, með formlegu læknisvottorði um, að þeir hefðu fengið veikina. Svo þurftu þeir hinir sömu að kaupa sér ný föt og eyðileggja þau gömlu og tak abaö. Þessi hlunnindi veittust áður en sótt hreinsunin var gjörð.

---

**Ferð ríkisstjórans í Canada, Dufferin lávarðar, til Manitoba og Keewatin sumarið 1877.**

(Tekið úr "Framfara".)

---

Meðan Dufferin lávarður var ríkisstjóri í Canada, ferðaðist hann um öll fylki landsins. Sumarið 1876 ferðaðist hann til British Columbia á Kyrrahafsströndinni. Var þá á orði, að hann heimsækti Manitoba á leið sinni að vestan, en sökum þess að þá var svo framorðið tímans, varð eigi af því. En sumarið 1877 hóf hann ferð sína frá höfuðstað ríkisins, Ottawa, 20. júlí, og kom til Winnipeg 7. ágúst. Hann fór sem leið lá yfir Chicago til St. Paul

og var honum þar vel fagnað. Ekið var með hann og föruneyti hans til Minneapolis; skoðaði hann borgina og hinn nafnkunna litla foss, Minnehaha, sem er þar í nánd.

Þann 3. ágúst fór ríkisstjórinn af stað til Manitoba. Fór með járnbraut til Fisher's Landing og þaðan með gufubátnum Minnesota norður eftir Rauðá. Þá hann kom til Pembina, á landamærum Minnesota, var honum heilsað með 17 fallbyssuskotum. Þá fór hann snöggvast í land. Svo hélt hann áfram norður fljótið inn í Manitoba og kom til Emerson, er þá var lítill bær, um hádegi á sunnudag 5. ágúst. Fögnuðu bæjarbúar honum alúðlega, fluttu honum ávarp og báðu hann velkominn inn í ríki Bretadrotningar aftur. Eftir að hann hafði svarað ávarpinu og séð sig dálítið um, sté hann aftur á skip og kom eins og áður er getið til Winnipeg kl. 10 fyrir hádegi þriðjudaginn 7. ágúst.

Í föruneyti ríkisstjórans var kona hans, Lady Dufferin, elzta dóttir hans, Lady Helen Blackwood; oberst Littleton (prívat ritari ríkisstjórans) og frú; Captain Hamilton, A.D.C., Capt. E. Selby Smyth, A.D.C., Mr. Campbell, hraðritari ríkisstjórans; tvær þjónustustúlkur og fjórir þjónustusveinar.

Þegar gufubáturinn Minnesota sigldi upp í Assiniboine fljótið, safnaðist fjöldi af fólki að lendingarstaðnum til að sjá ríkisstjórann um leið og hann stigi á land. Klukkan 12 stigu frúrnar á land og var ekið með þær í vagni fylkisstjórans, Morrisar, til ráðhúss bæjarins á undan. Þá fór bæjarstjórinn og fylkisstjórinn út á skip með aðstoðarmönnum sínum og fylgdu ríkisstjóranum í land, en bæjarráðið tók á móti honum á bryggjunni, þegar hann steig í vagninn var hrópað húrra hvað eftir annað, þegar hann ók inn í bæinn fylkti 1. deild Winnipeg fótgönguliðs sér hjá Dufferin-höll; átti það að verða heiðursvörður ríkisstjórans; lék hornaflokkur hið alþekta lag "God save the Queen". Í sama bili heilsaði Winnipeg stórskotalið með 17 fallbyssuskotum. Fór þá liðið af stað, samkvæmt skipun foringja, en einn af aðstoðarmönnum ríkisstjórans bauð því að staðnæmast, og fylkti það sér því aftur í raðir og yfirleit ríkisstjórinn herflokkinn. Lét hann í ljós ánægju sína yfir útliti þess og reglu, við foringja þess, Allan, og bað hann að láta liðið vita, hve vel honum litist á það. Svo fór vagn ríkisstjórans af stað, og gekk heiðursvörður hans á undan, en hitt fótgönguliðið á eftir; léku

tveir hornaflokkar á meðan vagnarnir og liðið var á hreyfingu. Þegar komið var að ráðhúsi bæjarins, staðnæmdist öll fylkingin; sté þá ríkisstjórinn úr vagni sínum og upp á háan pall, er reistur hafði verið fram undan ráðhúsinu, og sem frúrnar úr föruneyti hans og margt af helzta fólki bæjarins hafði skipast á. Þá flutti ritari bæjarráðsins ríkisstjóranum ávarp bæjarbúa; það byrjaði með að bjóða hann með frú hans og dóttur velkominn. Svo kom stuttur samanburður af ástandi bæjarins og fylkisins 1871 og 1877, sem var einkum hvað bæinn snerti eftirtekaarvert; og sýndi það, að framkvæmd og framfarir hjá þeim, sem bjuggu í Manitoba, höfðu verið eins miklar að sínu leyti, ef ekki langt um meiri en annars staðar í vesturhluta Ameríku, þegar gáð var að því, að ekkert járnbrautasamband hafði verið, og engispretttur höfðu gert mikinn hnekkir. Bæjarbúar kváðust vona, að ríkisstjórinn kynti sér að fullu ástand fylkisins, þarfir þess, og hvað það hefði sér til kosta, og auðsuppsprettur þess. Ávarpið endaði með því, að bjóða hann aftur velkominn og biðja hann að þiggja þá gestrisni, er þeir gætu auðsýnt. Ríkisstjórinn svaraði með stuttri en lipurri ræðu og sagði meðal annars, að hann hefði veitt nákvæma eftirtekt hinum miklu framförum Manitoba, að honum væri svo kunnugt um allan hag fylkisins sem hægt væri af ritum og skýrslum, en að hann hefði nú komið til að sjá með sínum eigin augum og kynna sér sjálfur alt ástand þess. Að þessu búnu voru leiddir fyrir ríkisstjórann helztu menn bæjarins og fylkisins. Þegar því var lokið, ók hann vestur til Sifurhæða, þar átti að vera aðal aðsetur hans meðan hann dveldi í Manitoba.

Hinn 8. ágúst á miðvikudag, var almennur helgidagur í Winnipeg. Bærinn var allur skreyttur með flöggum, fögrum trjám, og víða voru hlið öll skreytt með trjám og lyngi, o.s.frv. Mátti og hér og þar sjá ýmisleg orðtök, t. d. orðtak (motto) ríkisstjórans sjálfs: "per viss rectas."

Ýmislegt hafði verið undirbúið til skemtunar; þannig voru leiknir knattleikir og verðlaun viðlgð. Svo voru og ýmsir fimleikar reyndir. Líka lék hornaflokkur Winnipeg stórskotaliðs um daginn. Flugeldar voru og sýndir. Var ríkisstjórinn viðstaddur þessar skemtanir, og einnig við skemtileiki og hljóðfæraslátt í ráðhúsi bæjarins. Lét hann í ljós mikla ánægju yfir hinu ýmsa, er fram fór um daginn.

Dagana næstu á eftir sá hann sig um í bænum og umhverfis hann. Svo keyrði hann til ýmsra nærliggjandi

bygða vestur frá Winnipeg og var alstaðar tekið með viðhöfn. Svo keyrði hann suður með Rauðá til að skoða bygð Mennonita; þeir fóru eins og áður er getið að flytja af ættjörð sinni til Ameríku, þegar Rússastjórn ætlaði a gjöra þá herskylda, og á þremur árum, frá 1874 til 1877, höfðu 6,000 af þeim flutt til Canada. Þeir fluttu ríkisstjóranum ávarp á þýzku, sem síðar var þýtt á ensku. Sögðust þeir vera vel ánægðir með kjör sín, og sögðu að fleiri af þeirra þjóð mundi flytja til Manitoba.

Enn fremur skoðaði ríkisstjórinn bygðina norður með Rauðá. Var honum þar vel fagnað og flutt ávörp. Gat hann þess í einni ræðu sinni, að hann aldrei hefði séð eins björgulega og vel sprottna akra og á ferðum sínum í Manitoba. Hjá Railway Crossing (Selkirk) var mikill grúi af Indíánum saman kominn úr ýmsum áttum, og létu þeir á sinn hátt í ljós gleði sína yfir að sjá ríkisstjórann. Höfðu þeir litað sig ýmislega, sem þeir eru vanir að gera við hátíðleg tækifæri ,dönsuðu, sungu eða hljóðuðu heiðursgestinum til skemtunar, o. s .frv.

Hinn 29: ágúst keyrði ríkisstjórinn austur hinn svonefnda Dawson-veg austur fyrir Manitoba, til þess staðar við Lake of the Woods (Skóga-vatn), er nefnist "North West. Angle". Þar steig hann á gufuskip og fór með því eftir vatninu um hríð. Svo fór hann og föruneyti hans í Indíána barkarbát (Canoe) norðvestur eftir Winnipegfljóti til Fort Alexander, sem er u mtvær mílur frá þeim stað, er Winnipeg-fljót fellur út í fjörð hann er liggur suðaustur í landið sunnarlega við vatnið austanvert. Fjörður sá er liðugar 10 mílur á lengd.

Gufuskipið Colville, sem tilheyrði Hudsonsflóa félaginu, átti að mæta ríkisstjóranum í Fort Alexander þann 5. september og flytja hann yfir um Winnipeg-vatn til Nýja Íslands. Hafði hann ætlað sér að koma til Gimli þann 6. En það óhapp vildi til, að Colville festi sig um nótt í Rauðánni skamt fyrir sunnan Selkirk; varð hún eigi losuð fyr en þann 8, því sunnanvindar gengu og fjaraði fljótið mjög út undan henni. Fór hún svo eigi norður vatn fyr en þann 9., og mætti þá ríkisstjóranum og föruneyti hans á barkarbátunum í fljótsmynninu. Hafði honum leiðst biðin og ætlaði norðvestur til Mikleyjar, sem, þó það væru að eins um 15 mílur enskar, gat verið hættulegt á slíkum farkosti. Þar eð komið var fram yfir þann tíma, er hann hafði ætlað að koma að Gimli, réði hann af að ljúka fyrst af ferð sinni

norður til Grand Rapids, en koma til Gimli á bakaleiðinni. Þegar svo Colville kom að norðan þann 13., ætlaði hann að koma upp á Sandvíkurhöfn og fara þaðan upp Íslendingafljót, en svo hittist á, að suðaustan veður var allmikið. Bar skipstjóri, sem var þá kjarklítill eftir ófarirnar í Rauðá, því við, að eigi væri hættulaust að sigla inn á höfnina sökum brims milli rifjanna, er verja höfnina að sunnan. Hélt því suður með austurlandinu og upp í Rauðá. Þar eð kvika hafði verið all-mikil á vatninu, voru konurnar búnar að fá nóg af því og fóru því í land í Stone Fort. En ríkisstjórinn, sem fastlega hafði ásett sér að heimsækja nýlendu Íslendinga, lagði aftur af stað á Codville kl. 5 morguninn eftir og kom að Gimli kl. 9 fyrir hádegi á föstudag, 14. september.

Eins og getið var hér að framan, hafði Dufferin lávarður ákvarðað að koma til Gimli þann 6.. Var þv íhafður talsverður viðbúnaður til a taka á móti honum. Nefnd var kosin til a stýra undirbúningnum og semja ávarp, en bændur í Víðinesbygð lögðu til það verk, er þurfti, og sýndi bæði nefndin og aðrir áhuga og dugnað við undirbúninginn. Nefndarmennirnir voru bræðurnir Friðjón og Arni Friðrikssynir, bræðurnir Friðbjörn og Þorlákur Björnssynir, sem bjuggu í Nýhaga, skamt fyrir norðan Gimli, og Jón Bergmann á Dvergasteini. Undirbúningurinn var hinn bezti og alt var komið í lag þann 6. september og fjöldi fólks saman kominn úr suðurhluta nýlendunnar; en eins og áður var getið, kom ekki ríkisstjórinn þann dag, svo allir fóru þá heim til sín.

Þann 14. september um morguninn sást Colville prýdd mörgum stórum og smáum flöggum, koma brunandi sunnan vatn og stefna inn í víkina. Strax og skipið hafnaði, fór Jón Taylor umboðsmaður út í það, og sagði ríkisstjóranum að fólk væri ekki til staðar, og yrði að senda til þess og láta það vita um hátíðarhaldið. Lávarðurinn kom samt í land skömmu síðar. Gekk hann með föruneyti sínu um allan bæinn og kom inn í hvert hús. Svo gengu þeir ásamt Taylor og Friðjóni Friðrikssyni tvær mílur vestur frá Gimli eftir einum af vegum þeim, er Íslendingar sjálfir höfðu gert þá um vorið þess árs, samkvæmt almennum samþyktum um vegavinnu. Skoðaði hann þrjár jarðir og kom inn í hús bændanna Eggerts Gunnlaugssonar frá Húsey í Skagafirði (hann nefndi bæ sinn Miklabæ) og Jóns Árnasonar frá Máná (hann kallaði sinn bæ Meiðivelli) og

Páls Jónssonar frá Tungu í Fáskrúðsfirði. Bæjarnafn hans er gleymt.

Hann spurði nákvæmlega um margt, um efnahag bænda og hvort menn væru ánægðir með kjör sín og vongóðir um framtíðina, og létu allir vel yfir sér. Um kl. 2 e. m. kom hann til baka til Gimli og þáði hressingar og hvíldi sig í húsi Mr. Taylors. Talaði hann þá margt um hag nýlendunnar, mintist hann ferðar sinnar til Íslands 1856 og hvað sér hefði fallið hin íslenzka þjóð vel í geð; gat hann þess og, að hann hefði farið heiman að frá Ottawa með þeim fasta ásetningi að láta ekkert hindra sig frá því að heimsækja nýlenduna.

Um kl. 4 e.m. var yfir 100 manns af Íslendingum komið saman á Gimli og skipaði fólkið sér í hálfhring frammi fyrir ræðupallinum. Kom þá lávarðurinn með föruneyti sínu og sté upp á pallinn. Las þá Friðjón Friðriksson ávarp til hans á íslenzku, en rétti lávarðinum enska þýðingu af því.

Ávarpið til lávarðarins var að öllu leyti vel samið. Þess var minst í fyrri hluta þess, að þeir, sem væru þarna saman komnir, gætu nálgast heiðursgestinn sem vin ættlands þeirra, og mettu nafn hans að verðleikum.

Minst var á hina hörðu ekki þá fulllra tveggja ára baráttu, sem nýbyggjarnir höfðu háð síðan þeir komu til nýlendunnar, jafnframt getið þess, að menn vonuðu að myrku mótlætisdagarnir væru liðnir og bjartari framtíð byrjuð.

Viðurkend var með þakklæti hjálpin, sem Canadastjórn hafði veitt nýlendubúum og eins getið, hvað nýlendan hefði til kosta á vatni og landi.

Um ræðu Dufferins lávarðar, sem hann svaraði ávarpinu með, má sjá í landnámssöguþætti Nýja Íslands. Líka skal hér getið atriða úr henni, sem ekki er getið í þættinum.

Eitt af því, sem lávarðurinn taldi hrósvert hjá þessu íslenzka þjóðarbroti, sem hann þarna heimsókti, var, að hann kvaðst ekki hafa komið inn í eitt einasta hús í nýlendunni, þótt veggirnir væru berir og húsbúnaðurinn lítill, sem ekki hefði dálítið bókasafn af 20—30 bókum, og sagðist svo líka hafa fengið að vita það, að það væri varla barn á meðal þeirra, sem ekki kynni að lesa og skrifa.

Engin þjóð, sagði lávarðurinn, hefði meiri rétt til að

setjast að á meðal eldri byggjara Ameríku, en Íslendingar, af því að Columbus heimsókti Ísland fékk hann upplýsingar um hið forna Vínland í annalum þjóðarinnar, og ef svo hefði ekki verið, er óvíst hann hefði nokkurn tíma haft kjark og framkvæmd í sér að freista hins ókunna Atlantshafs.

Gaman var að heyra lávarðinn minnast á íslenzk kvennanöfn, svo sem þessara ungu meyja: Ingibjarge, Ragnhilda, Þóra, og Guðrúna.

Um klukkan 6 kvaddi Dufferin lávarður Íslendinga og fór út á skip. Var sendur bátur frá Colville til að sækja hann, en ungfrúrnar Jane og Susan Taylor buðu að flytja hann á litlum bát er þær áttu sjálfar, og þáði hann það mjög glaðlega.

Dufferin lávarður hét skírnarnafni sínu Frederick Temple Hamilton Blackwood, var kominn af írskri óðalsætt. Hann var fæddur í Florence á Ítalíu 21. júní 1826. Mentun sína fékk hann við Oxford háskóla og lauk þar námi.

Hann ferðaðist til Íslands sumarið 1856. Lauk hann lofsorði á Íslendinga fyrir gestrisni og hlýjar viðtökur á ferðu msínum um landið, var ávalt vinur Íslendinga síðan. Hann lézt 12. febrúar 1902.

---

## LANDNAMSSAGA FLJÓTSBYGÐARINNAR.

Meiri hluti Fljótsbygðarinnar er í township 23, röð 4. Frá vesturjaðri bygðarinnar austur að Sandy Bar eru um 6 mílur. Fljótið fellur frá suðvestri til norðausturs.

Skógur var á bökkum fljótsins, þegar landnám bygðarinnar hófst 1876. Heil trén hölluðust víða út í fljótið, svo menn urðu, þegar þeir reru á bátum sínum eftir því, að vera varasamir með að festa ekki bátana í greinum trjánna.

Fjórir eða fimm Indíána kofar voru á vestari bakka fljótsins, sem notaðir voru til að búa í fyrsta veturinn, af eins mörgum og komust fyrir í þeim. u

Er komið var fáar mílur vestur frá fljótinu, urðu fyrir mönnum flóar, ófærir fyrir menn og gripi. Nú er búið að þurka þá upp og gera að engjum.

## Ferðin frá Gimli til Íslendingafljóts, frá 1. september til hins 11., haustið 1876.

Eftir Þorgrím Jónsson á Akri.

Fyrsta september lögðum við af stað frá Gimli norður að Fljóti, með nokkuð af flutningi okkar, og vorum við í þeirri ferð í þrjá daga og vorum aftur komnir suður að Gimli þann 4; lögðum svo aftur af stað norður þann 5. kl. 2 e. m. Logn var á þegar við fórum. Við fórum með nokkuð mikið af farangri, nokkra hveitimjölspoka o. s. frv. Fólk var að tölu 27 á einu skipi, mjög viðargrönnu og veiku til að geta þolað þyngdina af því, sem á það var lagt, ef veður breyttist, sem fljótt varð. Það fór að gola, svo segl voru upp sett, en vegna nauðbeitar fór að gefa á og fólk fór að fá sjósótt, svo við lögðum að landi um kvöldið. Þar var aðdjúpt og urðum við að halda skipinu á floti meðan borið var af því, og gekk þó nokkuð á það, og svo var brimið ákaft, að stundum gengu öldur yfir höfuð okkar, því vindur var á austan, og stendur þá beint á land hér, og eru sem haföldur hér á vatninu, vegna þess hvað breitt það er. Hvergi sést til austurlandsins. Við vorum 8 karlmenn, en einn okkar, Jón frá Brenniborg í Skagafirði, var handarlama. Skipið fylti hjá okkur og fengum við þá ljótt skol; þó höfðum við bátinn fljótt upp, en vegna þess hann var orðinn gamall og var grannviða, þá slitnaði úr honum saumur, sem mest voru reknaglar, og gliðnaði hann nokkuð sundur og gekk úr lagi, svo nú var ekki hægt að komast á honum lengra.

Nú var heittur kaffisopi og kyntur langeldur, því menn voru kaldir og blautir og þörfnuðust hlýinda. Og þarna var nú búið um sig í skóginum um nóttina. Næsta dag, þann 6., kom stórrigning, svo seint varð um þurk og hlýindi á fólki. Sama austanveðrið var og fóru menn nú að leita að mannabygðum og fundu Benedikt Ólafsson frá Breiðagerði í Skagafirði, sem bjó næst fyrir innan þar sem við fórum á land. Hann kom til okkar að vatninu. Þarna vorum við veðurtept til hins 11., að við komumst með konur og börn og allan flutninginn norður að Fljóti.

### Frá 12. september til ársloka 1876—eftir sama.

Þann 12. september fórum við að skoða lönd og mæla

þau, og var Stefán Eyjólfsson frá Unaósi í Hjaltastaðaþinghá aðallega fyrir mælingunni. Hann gekk frá vissum stað, og mældi 1/4 úr mílu hvert land og komst mjög nærri því rétta.

Þann 13. fóru nokkrir menn austur að Sandy Bar, að vitja um gufubát, sem færði okkur stjórnarlán. Þann 16. byrjuðu menn að heyja, báru heyið saman á bakinu og líka á renglum á milli sín. Allgóð nýting varð á heyinu.

Þann 24. var bóluveikin komin í bygðina. Hún fluttist með Jóni frá Brenniborg, í klæði, sem hann hafði keypt í Quebec. Það minnir menn á klæðið, sem plágan mikla (sú fyrri) fluttist í til Íslands. árið 1402.

Þess skal getið, að frá því menn fóru að heiman þ. 30. júní til 15. september, voru um 30 manns dáið, og voru það flest börn, og olli því ónotalegt viðurværi á ferðinni, sem leiddi til sumarveiki, er harðast kom niður á börnum.

Um mánaðamótin nóvember og desember voru 19 manns dánir úr bólunni; 11. desember lézt Þorgerður kona Jóns frá Brenniborg.

Lítið gátu Fljótsbygðar-bændur veitt af fiski fyrsta veturinn. Olli því bóluveikin og hvað langt var til veiðistöðvar, og svo höfðu menn ekki mikinn tíma afgangs húsabyggingar-tímanum, um veturinn. Menn lifðu því mest á stjórnarláni þar til um vorið, þegar snjór var horfinn, að menn fóru að hafa fisk til lífsframfærslu.

Á gamlársdag 1876 brendu menn út gamla árið á Fljótinu, skamt frá Grund, heimili Jóhanns Briem. Svo margt, sem út gat komist af fólki, var viðstatt.

### Yfirlit yfir árið 1877 — eftir sama.

Þann 26. janúar 1877 var haldinn fundur á Möðruvöllum viðvíkjandi stjórnarfyrirkomulagi í nýlendunni og prentsmiðjukaupum, og voru til þess fyrirtækis þá komin 70½ hlutabréf, og sama dag var byrjað að byggja prentsmiðjuhúsið að Lundi, austan við fljótið.

14. febrúar var haldinn fundur á Sandy Bar til að ræða um að koma á sveitarstjórn, og svo var haldinn sveitarstjórnarkosningarfundur, líka á Sandy Bar, þann 21. febrúar. Jóhann Briem var kosinn bygðarstjóri.

Fyrsta júlí fóru fáeinir bændur úr Fljótsbygð suður að Gimli, að vita um, hvort stjórnarláns-kýrnar væru komnar. Þær voru þá ekki komnar. Aftur þann 23. voru menn sendir inn að Gimli að sækja kýrnar, og þann 4. ágúst voru

þær afhentar á austurbakka fljótsins; hver bóndi fékk eina kú.

Um miðjan júlí kom séra Jón Bjarnason frá Minneapolis norður til Nýja Íslands. Hann messaði við Fljótið 15. þess mánaðar og svo á Sandy Bar næsta dag. Þar var haldinn fundur eftir messu og samþykt að kalla séra Jón fyrir prest, ef suðurnýlendubúar gerðu það.

29. ágúst var haldinn fundur á Möðruvöllum og þar afráðið að kalla séra Jón.

Í fyrstu viku september var fram undan prentsmiðjunni í Lundi með mikilli vandvirkni alt undirbúið til að taka á móti Dufferin lávarði, svo það urðu ömurleg vonbrigði fyrir norður-nýlendubúa, þegar það brást, að lávarðurinn gæti komið norður að Fljótinu.

---

## ENDURMINNINGAR FRÁ LANDNÁMSTÍMANUM.

Eftir **Friðrik Sveinsson.**

### Fyrsta viðkynning við Rauðskinna.

Þegar fyrstu íslenzku landnemarnir settust að á strönd Winnipeg-vatns, þar sem Gimli-bær stendur, haustið 1875, varð lítið vart við Indíána. Höfðu þeir bygð sína norðar með vatninu, þar sem veiði var mörg. Enda hafði Dominion-stjórnin skipað vist svæði á vesturströnd vatnsins fyrir íslenzka landnema eingöngu og sjálfsagt tilkynt Indíánum það.

Sumarið eftir, 1876, fluttu þrír fyrstu landnámsmennirnir norður að Fljóti, þá kallað White Mud River, seinna Íslendingafljót. Þeir voru allir Eyfirðingar: Jóhannes Sigurðsson, frá Hrísum á Árskógsströnd, með konu sinni Guðlaugu og þremur börnum: Gunnlaugi 12 ára, Pétri 10 ára og Petreu 8 ára. Flóvent Jónsson frá Skriðulandi, með konu sinni Bergrósu og Jóni syni sínum um það 12 ára gömlum. Ólafur Ólafsson frá Espihóli, með fósturson sinn Friðrik Sveinsson. — Settist þessi hópur fyrst að, þar sem Möðruvellir voru seinna kallaðir, í bjálkakofa, sem Hudsonsflóafélagið átti. Var þessi kofi síðar kallaður Bóla, því þar varð fyrst vart bólunnar og þaðan breiddist hún út.

Jóhannes Sigurðsson nam land og kallaði Árskóg. Flóvent nam annað og kallaði Skriðuland; það var lengra



niður með fljótinu. Ólafur nam land austan við, þar sem Möðruvellir eru, og kallaði Ós, og byrjaði hann fyrst að koma sér upp bjálkahúsi með hjálp félaga sinna—við ósinn á kíl einum, er lá norður úr fljótinu.

Nokkrar fjölskyldur villimanna bjuggu þá meðfram fljótinu og höfðust við í tjöldum. Voru þeir eigi við eina fjölina feldir, því þeir fluttu úr einum stað í annan, eftir því sem veiði og öðrum hentugleikum þeirra var háttað.

Við ósinn á kílnum, þar sem Ólafur nam land, bjó Indíáni, er hét Ramsay, með fjölskyldu sína, konu og 5 börn, í tjaldi; hafði hann þar vel ræktaðan kartöflugarð, og fór hann brátt að amast við þeim hvítu mönnum, sem frumbyggjar landsins hafa alt af þurft að hrökkva undan. Þó gekk svo um hríð, að ekkert sérlegt bar til tíðinda, og veggir bjálkahússins fóru hækkandi. En svo var það einn morgun, að landarnir 3 fóru á bát sínum yfir kílinn til vinnu sinnar, að Ramsay er þar fyrir og all-reiðilegur og hrindir bátnum frá landi, og gerir það ljóst með bendingingum, að hann banni þeim lendingu, því hann kunni mjög lítið í ensku. Þeir lögðu að landi í annað sinn, en það fór á sömu leið, að hann hrindir út bátnum. Þá gengur Ólafur fram í bátinn með öxi sína og segir hinum að róa að landi; ná þeir þá lendingu og halda áfram smíðinu við húsið. En Ramsay tekur barkarkænu sína í miklu pússi og fer niður með fljótinu. Landarnir héldu áfram smíði sínu til kvölds og fóru svo heim. Um þetta leyti voru drengirnir, Gunnlaugur, Pétur og sá, sem þetta ritar, á byttu skamt niður með ánni. Heyrðu þeir nokkur byssuskot lengra niður með fljótinu, og sáu nokkrar barkarkænur hlaðnar Indíánum, og voru þeir að skjóta fugla á flugi, eða þá þeir skutu stundum út í loftið, líklega til að skjóta Íslendingunum skelk í bringu.

Drengirnir hröðuðu sér heim, að segja tíðindin og gesta von. Komu Indíánarnir fljótt og lentu fram undan híbýli landnemanna og gengu upp að kofanum og inn í hann óboðnir. Settust þeir í hálfhring sunnan við dyrnar, með byssur sínar, en landarnir voru í innri enda hússins, og gáfu í skyn, að þeir skildu ekki ensku. Horfðust flokkarnir svo í augu all-lengi, og var ekki laust við, að hinum yngri börnum þætti nóg um þessa óvæntu heimsókn.

Þegar rökkra tók kom einn bátur og var þar kominn Ramsay með Indíána túlk, og tilkynti hann Íslendingum,

að Rauðskinnarnir álitu, að þetta landnám væri óleyfilegur ágangur á rétti Indíána til landsins, og að ekkert af því landsvæði, sem Íslendingum væri úthlutað, myndi vera fyrir norðan fljótið.

Íslendingarnir voru nú sjálfir í óvissu um þetta, því landið þarna var enn ómælt í reiti, og samdist það svo milli Indíána og landnema, að fengin skyldi vissa um þetta frá embættismönnum stjórnarinnar sem fyrst, og fóru Indíánar þá sína leið og kvöddu.

Það var nú afráðið, að Ólafur, Jóhannes og Friðrik skyldu fara á bát suður í Rauðárósa og mæta þar Sigtryggi Jónassyni, er var væntanlegur með innflytjendahóp til nýlendunnar. Reru þeir svo um nóttina suður að Gimli.

Næsta dag var hvast veður á norðan og öldugangur mikill. Sigldu þeir þá beina leið að Rauðárósum, en rötuðu ekki vel inn í þá, af því þeir höfðu að eins einu sinni farið í gegn um þá áður, þegar þeir fluttu til nýlendunnar næstliðið haust.

Þegar nálægt ósunum dró, var afar-mikill brimgangur á grynningunum, sem ná langt fram í vatn. Samt var nú ekki annar kostur en hleypa í gegn u mþann brimgarð, þó glæfraför væri. Það höfðu líka á þessum hættustöðvum hálfum mánuði áður druknað tveir landmælingamenn í svipuðu veðri.

Brimið gekk alveg yfir bátinn og var afar-ervitt að halda honum í horfinu. En Jóhannes Sigurðsson var vanur sjómaður að heiman, hafði verið kafteinn á hákarlaskipi. Kom það nú í góðar þarfir, því aðallega var það hans snarræði að þakka, að við komumst af. En engu mátti muna; tvisvar hjó báturinn niður og var nærri komið að honum hvolfdi. Þegar að brimgarðinum kom, tók Jóhannes stýrið af bátnum, því það var gagnslaust í briminu, og stýrði með ár. Ólafur sá um seglið, en Friðrik var við austur. Þegar komið var inn úr briminu, var báturinn svo fullur af vatni, að hann að eins flaut. — Þegar inn í Rauðárós kom, urðu þeir fegnir að sjá íslenzka innflytjendahópinn, sem Sigtryggur Jónasson kom með að heiman. Það vildi líka svo vel til, að með hópnum var Indíánaumboðsmaður Dominionstjórnarinnar; var hann að fara norður á vatn að finna Rauðskinsa. Var nú hjá honum fengin vissa um það, að íslenzka landnámssvæðið næði norður fyrir White Mud ána. Var svo snúið norður aftur

og Indíánum gert ljóst, að þeir hefðu engan rétt til að eigna sér landið fyrir norðan fljótið, og gerðu þeir ekki fleiri tilraunir að hindra landnema frá að búa í haginn fyrir sig. Samdist það með þeim Ólafi og Ramsay, að Ólafur heimilaði Ramsay að rækta sinn kartöflureit og að hafa tjaldstæði á landinu — og bjuggu þeir saman í sátt og samlyndi upp frá því.

Ramsay var hinn mesti myndarmaður og bjó rausnarbúi upp á Indíána vísu. Var hann afburða skytta og veiðimaður, ráðvandur, skilvís, gestrisinn og hjálpsamur, og reyndist hinn bezti nágranni. Þó hann virtist vera óblandaður Indíáni, var hann mjög ljós á hörundslit, beinvaxinn, grannur og fagurlega limaður, frábærlega snar og fjörlegur í hreyfingum. Kona hans var sérlega fríð, og eins börn þeirra, og hreinlæti þeirrar fjölskyldu var aðdáanlegt. Sá, sem þetta ritar, naut stundum gestrisni Ramsay í tjaldi hans; drifhvítur dúkur var breiddur á jörðina og voru diskar, bollapör, hnífar og matkvíslar, er þau altént notuðu, frábærlega hreint, og matreiðsla í ágætu lagi, og var það all-ólíkt því, sem tíðkaðist hjá öðrum Indíána fjölskyldum, er við kyntumst, sem voru fremur sóðalegar.

Þegar bólan geysaði, deyddi hún eins og kunnugt er tiltölulega fleiri Indíána en hvíta menn; varð þá Ramsay fyrir þeirri þungu sorg, að missa konu sína og fjögur börn úr bólunni. Konan og tvö börnin hvíla á Sandy Bar. Á leiði konu sinnar setti Ramsay marmaralegstein, sem hann sókti til Winnipeg.

Af öðrum Indíánum þar norður frá, man eg eftir Jóni Mooney,—var það stórvaxinn karl, afar blakkur á hörundslit og heldur sóðamenni. Dreng átti hann, er var leikbróðir íslenzku drengjanna, og var hann mjög fríður sýnum og vingjarnlegur og kallaði okkur þá íslenzka "nitchie" — þ. e.: bróðir.

Einnig man e geftir lágvöxnum karli, heldur ófélegum, sem hét Missabe, og var hann sagður höfðingi Indíánanna, en fremur lítið virtist kveða að honum. Var hann þurlegur í viðmóti og virtist bera óvildarhug til íslenzku landnemanna.

**Jarðarför.**

Um sumarið 1876 kom hópur af Indíánum á barkarkænum upp fljótið og höfðu með sér lík látins bróður.

Var gengið frá líkinu á fljótsbakkanum, líklega ekki langt frá þar sem Unaland er nú. Greftrun er ekki hægt að kalla það, því engin gröf var tekin. Líkið var vafið í klæði og börk og gengið frá því ofanjarðar, staurar settir í jörð í kring um það og all-háar stangir til höfða og fóta. Á stangirnar voru skornar myndir af dýrum, sem líklega hafa verið ættarmerki þess dána (totleon); líka voru þar skornar myndir af fiskum. Á aðra stöngina var bundinn poki af tóbaki ásamt pípu og poki af te; hefir líklega átt að vera til hressingar sálu þess dána á leið hennar til hinna veiðisælu ódáinsakra, er sálir Rauðskinnanna safnast til.

Okkur drengjunum þótti þessi greftrunarsiður alleinkennilegur.

Indíánar þeir, sem Norðvesturlandið bjuggu, eru Ogibways;—á þessu svæði voru þeir Crees eða Swampysi kallaðir.

Einn þessara fyrstu landnámsmanna, sem hr. Friðrik Sveinsson getur um í endurminningum sínum, er á lífi, Flóvent Jóssson. Ólafur Ólafsson lézt, eins og kunnugt er, í Winnipeg 30. janúar síðastliðinn. Sá þriðji, Jóhannes Sigurðsson frá Árskógi var fluttur upp til Winnipeg vorið 1881, og vann þar daglaunavinnu um sumarið, flutti svo suður til Dakota, nam land í Hallson-bygð og bjó þar mörg ár. Er nú látinn fyrir nokkrum árum. Sá sem ritar þetta, hefir því miður ekki skýrteini til þess að geta nánara æfiatriða hans.

---

## LANDNAMSMENN TALDIR OG GETIÐ ÆFIATRIÐI ÞEIRRA.

**Pétur Árnason,** fæddur á Ketilsstöðum í Hjaltastaðaþinghá, 7. desember 1836, dáinn 25. október 1917. Foreldrar hans voru Árni Bjarnason bóndi á Ketilsstöðum og kona hans Guðrún Ísleifsdóttir bónda á Rauðholti, Egilssonar. Árni var bróðir Jóns í Breiðuvík í Borgarfjarðar-hreppi eystra, föður Vilborgar á Unalandi í Fljótsbygð, ekkju eftir Eyjólf Magnússon á Unalandi. Pétur var tvíkvæntur; fyrri kona hans, Friðrika Björnsdóttir, fædd í Seljarteigshjáleigu í Reyðarfirði 28. júlí 1849; hún var hjá foreldrum sínum til þess hún var 10 ára,

fór þá á Eskifjörð og var hjá Jónasi sýslumanni Thorsteinsen og Bjarna lækni Thorlacíus til þess hún giftist Pétri 1869. Hún dó 8. ágúst 1884. Börn á lífi: 1. Elín kona Gríms Magnússonar í Winnipeg, 2. Vilborg kona Vigfúsar J. Guttormssonar að Oak Point, 3. Guðrún Sigurbjörg kona Stefáns Jónssonar, Mozart, Sask.; 4. Friðrika kona Páls Vídalíns í Árskógi, sem síðar mun getið.

Seinni kona Péturs, Hólmfríður Jóhannesdóttir; þau giftust 1888; hún er á lífi, til heimilis í Árskógi.

Pétur ólst upp á Ketilsstöðum hjá foreldrum sínum, þar til hann misti þau árið 1845. Móðir hans og systir og Pétur Bjarnason föðurbróðir hans druknaði í Selfljóti rúmum tveim vikum eftir lát föður hans. Frá þeirri slysför segir Pétur í bréfi til þess, sem þetta ritar, dagsettu að Icelandic River 4. júlí 1914, sem eftir fylgir:

"Það var seint um haustið 1845, að við fimm, móðir mín, Vilborg systir mín 18 ára og eg 8 ára, Snjófríður systir mín 6 ára og Pétur föðurbróðir minn, vorum á heimleið til Ketilsstaða frá Hjaltastað, úr brúðkaupsveizlu sóknarprestsins, séra Stefáns Jónssonar. Móðir mín var ríðandi, en við hin gangandi. Þegar við komum að Grófnavaði svokölluðu, þá var fljótið nýrent með veikum ís. Pétur braut fyrir hesti móður minnar yfir um fljótið, fór svo til baka að sækja okkur börnin, og ætlaði með okkur á ís á á hyl í króknum skamt fyrir ofan vaðið. Fyrst fór hasn með mig og gekk sú ferð slysalaust. Síðan fór hann aftur yfir um og sótti Snjófríði, en þegar þau voru komin meira en á miðja leið, bilaði ísinn. Þá var móðir mín komin til mín á bakkanum. Kallaði þá Pétur til hennar og sagði henni að reyna að bjarga barninu; hljóp hún þá út á ísinn, sem brast, þegar hún ætlaði að grípa barnið, og druknuðu þau þrjú í sömu vök.

Þeir, sem fyrst komu að fljótinu eftir slysið, voru: Þorsteinn Gunnarsson á Hreimsstöðum, austan fljóts, og Jón Jónsson á Ketilsstöðum, að vestan. Lík Péturs náðist strax, en þeirra mæðgnanna skömmu seinna.

Eftir þetta var Pétur fyrst í Hjaltastað hjá móðurfólki sínu til fermingaraldurs, svo í Vopnafirði og Seyðisfirði og Eskifirði til þess hann fór til Ameríku 1876. Hann var á Sandy Bar bóluveturinn og svo á Hofi ,suður með vatninu, fá ár, flutti sig svo að Árskógi hvar hann bjó til dauðadags.

Pétur var vandaður og áreiðanlegur maður í viðskiftum og einarður, við hvern sem var að skifta, ættjarðarvinur og kært að tala um endurminning ar frá æskustöðvum sínum.

**Páll Vídalín Friðriksson,** tengdasonur Péturs sál., Árnasonar, fæddur á Svertingsstöðum í Húnavatnssýslu 26. desember 1880. Býr í Árskógi.

---

**Þorvaldur Þórarinsson** á Skriðulandi, fæddur í Skógum í Kolbeinstaða-hrepp í Hnappadalssýslu 4. desember 1855. Foreldrar hans voru Þórarinn Þorvaldsson bónda í



Þorvaldur Þórarinsson og Helga Tómasdóttir.

Krossholti í Kolbeinsstaðahrepp og kona hans Kristín Jónsdóttir, ættuð úr Staðarsveit í Snæfellsnessýslu.

Föðurætt Þorvaldar hefir verið kölluð Krossholtsætt. Einar Dalmann, sem lengi bjó í Selkirk, látinn fyrir nokkkrum árum, var föðurbróðir hans.

Þorvaldur er tvíkvæntur. Fyrri kona hans Sesselja Eyjólfsdóttir bónda á Unalandi; þau giftust 23. desember 1885. Sesselja dó 1890. Þeim varð þriggja barna auðið: 1. Eysteinn dó fárra vikna gamall, 2. barn Steisunn, á lífi, og 3. barnið dó nýfætt.

Önnur kona Þorvaldar, Helga Tómasdóttir bónda á Engimýri; þau giftust 29. janúar 1893 og hafa eignast 11 börn:( 1. Sigtryggur, giftur Kristínu Williams, íslenzkri í móðurætt; 2. Þórarinn, 3. Sigurbjörg Vilhelmína, 4. Albert Vilhjálmur, 5. Tómas Lárus Vilbert (látinn); 6. Kristín Soffía, gift Stefáni Ólafssyni, þau búa í Winnipeg; 7. Stefán Haraldur, 8. Jónas Helgi, 9. Tómas Þorvaldur, 10. Kristján og 11. Lárus.

Þorvaldur fluttist til Ameríku 1876, var í Winnipeg fyrsta árið, og vann svo á Canada Kyrrahafs járnbrautinni sex mánuði, fór svo til Nýja Íslands og settist að við Íslendingafljót 1880. Hann setti fyrst heimilisrétt fyrir föður sinn, sem kom að heiman 1881, á land, sem hann kallaði Flugumýri. Faðir hans lézt 1893, hafði áður sett sinn heimilisrétt á Flugumýri og arfleiddi svo son sinn að jörðinni.

Þorvaldur bjó fyrst á Flugumýri, fór þaðan 1901, tók heimilisréttarland og nefndi það Hóla, og bjó þar 7 ár, og fluttist svo að Flugumýri aftur og bjó þar fjögur ár, keypti svo Skriðuland, flutti þangað 1912 og hefir búið þar síðan.

---

**Hálfdán Sigmundsson** á Barkarvöllum, fæddur á Máná á Tjörnsi 20. júní 1849. Foreldrar hans voru Sigmundur Þorgrímsson og Jóhanna Sigurðardóttir. Hálfdán telur ætt sína til Jóns biskups Arasonar í 11. lið.

Kona Hálfdáns, Sólveig Árnadóttir, ættuð úr Reykjadal. Hún var fósturdóttir Jóns Marteinssonar á Fjöllum í Kelduhverfi. Þau giftust í Garði í Kelduhverfi 4. júlí 1875. Þau hafa átt 8 börn og eru þrjú á lífi: 1. Anna, kona Halldórs Austmanns, bónda upp með Íslendingafljóti; 2. Valdimar, kvæntur Elínu Pálsdóttur frá Reykjarhóli; 3. Jóhanna, gift Halli Hallssyni, búa á Bjarkarvöllum.

Hálfdán fluttist til Ameríku 1876; var á Víkingsstöðum skamt fyrir vestan Sandy Bar fyrsta veturinn hjá Páli Jóhannssyni frá Víkingavatni. Næsta vor, 1877, festi hann sér land mílu fyrir norðan Sandy Bar, og nefndi það Skóga, bjó þar 5 ár, flutti svo til Íslendingafljóts og keypti landtökurétt á Bjarkarvöllum og hefir búið þar síðan.

Frumbyggjari á Bjarkarvöllum var Guðmundur Skúlason, flutti til Dakota, bjó þar í Mountain-bygð, látinn að

eg hygg fyrir mörgum árum. Hann var faðir Barða og Skúla lögfræðinga, sem flestir Íslendingar vestan hafs munu kannast við.

**Póstferða-saga Hálfdáns Sigmundssonar, frá landnámstíð Nýja Íslands, rituð af honum sjálfum.**

Það var í október 1882 að eg, eftir beiðni Friðjóns Friðrikssonar, umboðsmanns póststjórnarinnar, tók að mér að sjá um flutning á pósti frá Íslendingafljóti til Clandeboye. Átti eg að hafa 35 dollara fyrir 4 vetrarmánuðina,



Hálfdán Sigmundsson og Solveig Árnadóttir.

8 dollara fyrir ferðina, en 12 dollara fyrir ferðina haust og vor. Fanst mér þá, að þetta væri mikil peningaupphæð, þótt eg til að innvinna mér hana þyrfti að hlaupa 120 mílur til og frá. En mér var þá létt um gang, því ekki var um annað að gera en treysta á fætur sína; engin átti eg ökudýrin. Bygðin var strjálbygð og aðal vegur nýlendunnar oftast ófær á vetrum. Varð eg því að fara frá Sandy Bar inn vatn til Gimli, oft móti sterkum vindi, hríð og grimdar frosti. Tvær ferðir þurfti eg að fara á mánuði, og í ferðina gengu vanalega þrír til fjórir dagar; vildi til



að eg fór á tveimur dögum í marz og apríl, þá gott var veður og hörð braut. Sjaldan var eg þreyttur af því mér var létt um að hlaupa, þótt oft hefði eg erviða tíma. Fjögur voru gistiheimilin á leiðinni, ávalt reiðubúin að taka á móti mér. Þau reyndust mér sem foreldra heimili. Það fyrsta var á Drunken tanga hjá Stefáni Sigurðssyni, og þar næst hjá bræðrunum Jóhannesi og Guðlaugi Magnússonum á Dagverðarnesi í Árnesbygð. Hin voru hjá Pétri Pálssyni á Gimli og Benedikt Arasyni í Kjalvík. Þessi göfugu kærleiksheimili veittu mér allan þann greiða, sem þeim var unt að veita, án nokkurs endurgjalds frá mér, en eg veit að guð launar hverjum manni, sem kærleiksverk gerir, fyrir þau á þeim tíma, er honum þóknast.

Í janúar 1883 var það, að eg lagði af stað frá Íslendingafljóti með póstinn um sólaruppkomu ofan á Sandy Bar, og var þá sunnan stormur með hríð og heiftar frosti; hélt eg þá inn vatn og hugði að taka mér stefnu til Drunken River, og gekk það vel. Sá eg þó aldrei rofa til lands, fyr en eg var kominn undir tangann að norðan. Fór eg svo inn með landi og kom til vinar míns Stefáns Sigurðssonar, og neytti þar matar og drakk kaffi. Var klukkan 1, er eg var tilbúinn að halda af stað aftur inn eftir vatni. Sagði þá Stefán mér, að það væri alveg óvit í því fyrir mig, að fara inn vatn í því vonsku veðri. Kvað eg það mundi satt vera, en trú mín væri sú, að drottinn gæfi mér þrek til að yfirvinna alla örðugleika, og lítið væri það harðara á mér en fyrir elsku konuna mína heima, að hirða gripi okkar og hita upp húsið og sjá um börnin. Kvaddi eg hann og sagðist vona að sjá hann aftur á heimleiðinni. Hélt eg svo inn eftir og hugði hvergi til bæjar að koma fyr en Gimli. Veðrið var hið sama og var þegar eg lagði af stað frá Sandy Bar; eg varð oft að snúa mér undan veðri til að bræða klaka frá augum og munni með berum höndunum. Af og til sá eg rofa til lands á meðan dagsbirtu naut, og um dagssetur mun eg hafa verið austur af Birkines-tanga norðan við Gimli. Var eg þá orðinn svo þreyttur og föt mín svo frósin, að eg átti mjög bágt með að ganga, því eg hafði svitnað svo mikið á meðan eg var óþreyttur. Þóttist eg nú fullkomlega sjá tvísýni á lífi mínu. Myrkur var komið og dimmveðurshríð. Sneri eg mér þá til lands í þeirri von, að vindstaða væri hin sama og verið hafði allan daginn, og hélt eg væri þá austur af Gimli. Þegar eg hafði gengið á

að gizka 15 mínútur, hné eg niður af þreytu, og fanst mér vera ómögulegt að standa upp aftur. Las eg þá bæn, er elsku móðir mín hafði kent mér, þegar eg var lítill drengur. Lá eg nú þarna nokkkra stund og virtist sem eg hefði sofnað. Þá er eins og mér heyrist kallað til mín: "Sjáðu ljósið!" Hvort mig hefir dreymt það að kallað var til mín, veit eg ekki, en það var víst, að sú rödd, hvort sem hún barst mér til eyrna í vöku eða svefni, bjargaði lífi mínu. Reis eg þá upp og fanst eg hafa hvílst. Virtist mér hríðin ekki vera eins mikil og eg sjá rofa til skógar. Barði nú með hnefunum utan á mér buxurnar um hnén, svo mér væri hægra að ganga. Ekki var eg farinn að skjálfa, en mjög var mér kalt. Þegar eg hafði gengið litla stund, sá eg ljósi bregða fyrir beint fram undan mér, sem var líkast að vera luktarljós. Hraðaði eg nú göngu eins og eg gat, þar til eg með guðs hjálp kom að húsi vinar míns, Péturs Pálssonar. Sló þá högg í skjólhurðina og kom húsbóndinn út og bauð mig velkominn, og sagði eg skyldi koma sem fljótast inn úr þessu vonda veðri, hvað eg gerði og bað um vatn að drekkja, hvað eg fékk, en var ráðlagt að drekka varlega. Fann eg að eg hrestist þegar eg hafði svalað þorsta mínum. Kom þá kona Péturs og hjálpaði manni sínum til að klæða mig úr frosnum ytri fötunum. Þegar þau tóku úrið úr vasa mínum, fanst þeim það vera fremur klakaköggull en úr. Eg var klæddur í þur föt og þakinn hlýjum voðum ofan í rúm, og alt sem mögulegt var af þeim heiðurshjónum gert til að hjúkra mér. Sofnaði eg svo eftir að eg hafði lesið kvöldbænir þær, er eg lærði á barnsaldri. Og var eg furðu-hress, er eg vaknaði næsta dag, og komst um daginn til Clandeboye, og næsta dag í bakaleið til vinar míns Benedikts Arasonar í Kjalvík, og þaðan heim daginn þar á eftir.

Að endurkalla í huga minn, hve glaður eg varð, þegar eg úti á Winnipeg-vatni sá ljósið á landi, sem lýsti mér til manna bygða, er mér ávalt kært. Þó er mér enn kærara að endurkalla í hugann, hvað vel konan mín fagnaði mér, þegar eg kom heim. Kærleiksljós hennar hefir á okkar samverutíma lýst sálu minni og mun lýsa til æfiloka.

---

Arnljotur B. Olson

**Lárus Þórarinn Björnsson** á Ósi, fæddur á Valabjörgum í Skagafjarðarsóslu 19. ágúst 1844. Foreldrar hans voru Björn Olafsson, bóndi í Valadal í sömu sýslu, og kona hans Halldóra Jónsdóttir Auðunsonar prests frá Blöndudalshólum, bróður Björns Blöndals, sýslumanns mannsí Húnavatnssýslu.


Lárus Björnsson.

Kona Lárusar er Guðrún Stefánsdóttir Jónssonar. Stefán var bróðir Halldóru móður Lárusar. Móðir Guðrúnar, kona Stefáns, Steinunn Björnsdóttir. Þau bjuggu nokkur ár á Sveinsstöðum í Tungusveit í Skagafirði. Þar var Guðr. fædd. Síðar bjuggu þau í Breiðagerði í sömu sveit. Þau Lárus og kona hans eiga eina dóttur barna, heitir Stefanía, gift Jónasi syni Magnúsar Jónassonar bónda í Víðir-bygð. Þau búa á Ósi hjá eldri hjónunum.

Lárus ólst upp hjá foreldrum sínum, sem bjuggu á ýmsum bæjum í Skagafjarðarsýslu. Árið 1875 fór hann að búa á Skútastöðum í Lýtingsstaðahreppi í Skagafjarðarsýslu. Næsta ár, 1876, fór hann til Ameríku. Var fyrsta veturinn um tíma í húsinu Bólu, sem áður hefir nefnt verið. Stærð þess var 14 fet á lengd og 12 á breidd. 19 manns voru í því nærri 3 mánuði.

Lárus nam fyrst land fyrir austan Fljótið, og nefndi það Fljótsbakka, flutti þangað í desember 1876, bjó þar 12 ár; keypti þá jörðina Ós fyrir vestan fljótið. flutti þangað vorið 1888 og hefir búið þar síðan.

Lárus var á yngri árum afburðamaður að afli og snarmensku.

---

**Björn Hjörleifsson,** fæddur á Hallfreðarstöðum í Hróarstungu 22. apríl 1867. Foreldrar hans voru Hjörleifur Jónsson og kona hans Björg Jóhannesdóttir bónda á Hrollaugsstöðum, Jónssonar, Ólafssonar. Móðir Jóhannesar var Margrét Jakobsdóttir, söguritara og nafnfrægs skrifara, í Skálanesi við Vopnafjörð, Sigurðssonar prests á

Skeggjastöðum; kona Jakobs hét Ingveldur Sigurðardóttir, en móðir hans, kona séra Sigurðar á Skeggjastað, var Ingibjörg, dóttir Jakobs prests á Kálfafellsstað, Bjarnasonar prests í Þingmúla, Gissurssonar. Séra Bjarni var dóttursonur séra Einars Sigurðssonar í Heydölum, d. 1626, föður Odds biskups í Skálholti. Kona Jóhannesar á Hrollaugsttöðum, móðir Bjargar móður Björns Hjörleifssonar, var Þorbjörg, dóttir Jóns Guðmundssonar á Víðastöðum, Kolbeinssonar í Fossvallaseli. Af hollenzkri ætt er sagt sá Kolbeinn hafi verið kominn. Kona Jóns á Víðastöðum, móðir Þorbjargar, var Sesselja Sigurðardóttir bónda á Víðivöllum í Fljótsdal, Einarssonar á Hafursá, Þorvarðs-



Björn Hjörleifsson.



Guðrún Jóhanna Einarsdóttir.

sonar. Móðir Einars á Hafursá var Sigríður, dóttir séra Eiríks á Hallormsstað. Móðir séra Eiríks var Sigríður, dóttir séra Einars í Heydölum.

Kona Sigurðar á Víðivöllum var Þórunn Bjarnadóttir bónda á Búlandi, Eiríkssonar hins stóra á Búlandi. Móðir Þórunnar var Kristín, dóttir Jakobs prests á Kálfafellsstað; hún var systir Ingibjargar móður Jakobs söguritara, sem getið er um hér að framan í ættfærslunni.

Kona Björns, Guðrún Jóhanna Einarsdóttir, ættuð úr Skaftafellssýslu, bróðurdóttir Þorsteins Þorsteinssonar, bónda að Leslie, Sask., og Ketils Þorsteinssonar bónda að Quill Lake. Þau hafa eignast 11 börn: 1. Gunnlaugur Byron, féll í orustu á Frakklandi ( ágúst 1918, fór í herinn 26. janúar 1916; 2. Robert Ingersoll, fór í herinn

13. apríl 1916; 3. Ólafur, dó af slysför 11 ára; 4. Vilfred Tryggvi; 5. Björn, 6. Sigurjóna Guðrún, 7. Jóhanna Guðrún, 8. Ólafur Snorri, 9. Guðlaug Lilja María, 10. Þórun, 11. William Allen Carr.

Björn ólst upp á Hallfreðarstöðum og dvaldi þar mestallan tímann sem hann var á Íslandi, hjá Páli skáldi Ólafssyni. Fluttist til Ameríku 1893. Var fyrst í Winnipeg eitt og hálft ár. Hann giftist 1894, fór svo til Nýja Íslands og var í suðurparti nýlendunnar þar til árið 1900, að hann nam land í Fljótsbygð. Hann býr rúmar tvær mílur frá Riverton. Hann hefir ekki enn gefið heimili sínu íslenzkt nafn, en land hans er N. W. 30 -23-4 E.

Björn er skemtinn í tali og hefði verið meðtækilegur fyrir að ganga mentaveginn, ef hann hefði átt kost á því.

---

**Jón Pálsson** í Víðirtungu, sonur Páls Péturssonar bónda frá Reykjarhóli í Skagagfirði. Jón var fæddur á Reykjarhóli 27. júní 1869, fluttist til Ameríku með foreldrum sínum 1876. Hann veiktist, þegar komið var til Quebec, og var ekki kominn til Nýja Íslands fyr en í september, með þriðja vesturfarahópnum. Foreldrar hans biðu í Quebec eftir Austurlands-hópnum og fóru með honum vestur, og þar eð drengurinn var ekki álitinn ferðafær, urðu þau að skilja hann eftir.

Kona Jóns heitir Kristín Björnsdóttir, ættuð úr Húnavatnssýslu, fædd á Fögrubrekku í Vatnsdal. Þau giftust 1901, eru barnlaus, en eiga fósturdóttur.

---

**Jóhann Briem,** á Grund, fæddur á Grund í Eyjafirði 7. desember 1845. Foreldrar hans, Ólafur Briem, timburmeistari og bóndi á Grund, þjóðfundarmaður Eyfirðinga 1851, fæddur 29. nóvember 1808, d. 15. janúar 1859, og kona hans, Dómhildur Þorsteinsdóttir bónda á Stokkahlöðum Gíslasonar; hún var fædd 27. september 1817, dó 25. maí 1858. Faðir Ólafs Briems, Gunnlaugur Briem, sýslumaður í Eyjafjarðarsýslu, dáinn 17. febrúar 1834, Guðbrandsson prests á Brjánslæk.

Ætt Gunnlaugs sýslumanns Briems hefir verið af merkum ættfræðingi á Íslandi rakin upp til fornmanna, Oddverja, Haukdæla og Mýramanna. Þannig er Jóhann Briem í 20. lið kominn af Jóni Loftssyni í Odda, d. 1197, en Jón Loftsson var dóttursonur Magnúsar konungs berfætts;

hann féll á Írlandi 1103. Í 28. lið er Jóhann koinn af Ketbirni gamla á Mosfelli, föðurföður Gissurar hvíta, dáinn um 1020.

Kona Jóhanns Briem, Guðrún Pálsdóttir bónda frá Reykjarhóli Péturssonar, fædd 17. apríl 1863; þau giftust 10. desember 1881. Börn þeirra: 1. Veighildur Mabel, gift Pereyde Montford Wood, latínuskólastúdent frá Portsmouth á Englandi, var í mörg ár skrifari á skrifstofu C. P. R. félagsins í Winnipeg; 2. Valdheiður Laura, gift Edward Ford, blaðstjóra auglýsingablaðs í Regina; 3. Páll Marino



Jóhann Briem, Guðrún Pálsdóttir og Rannveig Briem.

4. Valgerður Helen, gift Ola Kristin Coghill verzlunarstjóra í Fairford; 5. Sigtryggur Hafsteinn, giftur Ingibjörgu Guðjónsdóttur Ingimundssonar, ættaðri úr Vestmannaeyjum, 6. Ólafur Briem.

Eins og áður er getið, voru hjónin Ólafur og Dómhildur á Grund látin snemma á árinu 1859, með sjö mánaða og þriggja vikna millibili. Þá var bú þeirra uppleyst og börnin, sem sum höfðu nærri náð fullorðinsaldri, dreifðust á meðal ættingja og vina þeirra. Jóhann fór um vorið 1859 að Hálsi í Fnjóskadal til séra Þorsteins Pálssonar og seinni konu hans, Jóhönnu Gunnlaugsdóttur Briem, föðursystur

sinnar. Hún var áður gift séra Gunnari í Laufási og voru þau eins og kunnugt er foreldrar Tryggva alþingismanns Gunnarssonar og frú Kristjönu konu Hafsteins amtmanns.

Jóhann var á Hálsi í þrjú ár og fór svo vorið 1862 að Hallgilsstöðum, næsta bæ við Háls, til Tryggva Gunnarssonar, og nam af honum trésmíði, en Tryggvi hafði numið trésmíði af Ólafi föður Jóhanns. Frá Hallgilsstöðum fór Jóhann vorið 1865 að Laufási til séra Björns Halldórssonar og var þar tvö ár og vann þar að byggingu kirkjunnar og annara húsa bæjarins. Þaðan fluttist hann vestur að Hjaltastöðum í Skagafirði til Eggerts Briem sýslumanns, föðurbróður síns; vann hann þar í firðinum að smíðum aðallega við að byggja Reynistaðakirkju með Magnúsi snikkara Árnasyni.

Úr Skagafirði fór Jóhann norður í Eyjafjörð og var til heimilis á Espihóli hjá Ólafi Ólafssyni og vann um tíma að skipasmíði og húsagerð í firðinum.

Á þeim árum, sem Jóhann dvaldi í Eyjafirði, var blaðið "Gangleri" stofnað og voru sex útgefendur, og var Jóhann einn af þeim; hinir voru: Friðbjörn Steinsson ábyrgðarmaður, Þórður Tómasson héraðslæknir á Akureyri, Páll Magnússon hreppstjóri á Kjarna við Eyjafjörð, Ólafur Ólafsson á Espihóli og Kristján Ólafsson Briem, bróðir Jóhanns.

Eitt ár bjó hann á Þrastarhóli í Eyjafjarðarsýslu, eftir bón séra Þórðar Jónssonar. Þaðan flutti hann búferlum vestur að Ríp í Hegranesi í Skagafirði, eftir bón Jóns prófasts Hallssonar, sem hafði staðinn til umráða eftir fráfall séra Jónasar Björnssonar, er drukknaði í Héraðsvötnunum. Eftir eitt ár á Ríp, sem þá var veitt séra Guttormi Vigfússyni, flutti Jóhann að Völlum í Vallhólmi, var þar þrjú ár; hann bygði bæinn á Völlum og varði helming tímans, sem hann bjó þar, til að byggja Höskuldsstaðakirkju á Skagaströnd, þar sem séra Eggert Briem bróðir hans var prestur.

Jóhann fluttist til Ameríku 1876. Hann varði nokkrum tíma fyrsta haustið til að hjálpa sveitungum sínum að heiman að velja sér bújarðir í Fljótsbygð og gefa þeim nöfn.

Jóhann var einn af aðal-mönnunum, sem mest gengust fyrir að stofna blaðið "Framfara", var í stjórn prentfélagsins meðan blaðið lifði, og líka vann hann mikið að því að koma á stofn bændafélagi í Fljótsbygðinni, sem

var við lýði í nokkur ár; markmið þess var, að bæta kornrækt og nautfjár, og náði það nokkuð tilganginum með það fyrnefnda.

Jóhanni var á yngri árum sínum létt um að rita, sem ritgjörðir hans í "Framfara" sýna. Í seinni tíð hefir hann lagt frá sér pennann, heimilisstörfin taka upp tíma hans. Á aldrei þó svo annríkt, að ekki gefi hann sér tíma til að tala við gesti sína. Skáldgáfa hefir honum verið gefin, sem fleirum í ætt hans.

Í starfsmálum safnaðar síns (Bræðrasafnaðar) hefir Jóhann ávalt tekið mikinn og góðan þátt frá upphafi vega.

---

**Eyjólfur Magnússon** á Unalandi, fæddur í Njarðvík í Norður-Múlasýslu 22. september 1822, dáinn 24. október 1907. Foreldrar hans voru Magnús Jónsson prests á Eiðum Brynjólfssonar, og kona hans Guðrún Guðmundsdóttir, ættuð úr Reyðarfirði. Móðir Magnúsar föður Eyjólfs, en kona Jóns prests Brynjólfssonar, hét Ingibjörg Sigurðardóttir. Móðir hennar var Bóel dóttir Jens Wiums sýslumanns í Múlaþingi.

Eyjólfur var tvíkvæntur. Fyrri kona Steinunn Stefánsdóttir bónda á Heyskálum Guðmundssonar, og konu hans Sesselju. Steinunn dó 1864. Börn: 1. Magnús, lærði siglingafræði og var með Norðmönnum lengi í siglingum, og druknaði við Noreg 1878, var kvæntur norskri konu, attu börn; 2. Stefán, bóndi í Garðar-bygð í North Dakota; 3. Sigurður, bóndi í Víðir-bygð, Man.; 4. Þorsteinn, bóndi á Hóli við Íslendingafljót; 5. Sesselja, fyrri kona Þorvaldar Þórarinssonar á Skriðulandi (getið áður); 6. Guðrún, dó ung.

Seinni kona Eyjólfs, Vilborg Jónsdóttir bónda í Breiðuvík í Borgarfjarðarhreppi eystra; þeirrra son, Gunnsteinn bóndi á Unalandi, látinn.

Eyjólfur bjó öll búskaparár sín á Íslandi á Unaósi, yzta bæ í Hjaltastaðaþinghá, við hin eystri fjöll. Bærinn var nefndur eftir Una danska landnámsmanni, syni Garðars Svafarssonar, sem fann Ísland næst á eftir Naddoddi.

Síðasta ár sitt á Íslandi dvaldi Eyjólfur á Seyðisfirði. Fór til Ameríku 1876. Stefán sonur hans var kominn vestur tveimur árum áður, og eins og um getur í þætti hans, var hann búinn að velja bújörð fyrir föður sinn við Fljótið, sem nefnd var Unaland.

Eyjólfur var hagsýnn búmaður, og fyrir hraðfara framför í landbúnaði og glöggsæja búskapar-þekkingu var hann sæmdur silfur-medalíu af Dufferin lávarði, þegar hann kom til Nýja Íslands 1877.

Hann var trúmaður og lagði mikla rækt við að uppfræða börn sín í kristindóminum. Hann gat verið gaman-fundinn í orðum, og ef honum þótti einhver, sem hann talaði við, ekki hafa viðeigandi orðaval, sló hann þann af laginu með svo einkennilega völdu orði, að hinn hlaut að þagna.

---

**Stefán Eyjólfsson**, fæddur á Unaósi 25. desember 1849; ólst upp á Heyskálum hjá móðurforeldrum sínum til þess hann var 11 ára gamall, að afi hans dó. Fór hann þá aftur að Ósi og var hjá föður sínum til 22 ára aldurs. Fór þá að Höfn í Borgarfirði til Þorsteins Magnússonar, föðurbróður síns og var þar tvö ár. Fór til Ameríku 24 ára gamall 1874. Fór af Seyðisfirði 9. Júní með kaupskipi til Kaupmannahafnar og eftir fárra daga dvöl þar til Noregs, til að sjá Magnús bróður sinn, sem gat þó ekki orðið, því Magnús var fjarverandi heimili sínu, vár í kaupferð til Íslands. Stefán kom fyrst á land í Ameríku í Philadelphia, 22. júlí, fór þaðan til Milwaukee og komst strax í bændavinnu úti á landi, vann fyrsta daginn við að binda hveiti á akri; þá var hitinn 113 stig í skugga, sem gjörði verkið nokkuð þungt fyrir nýkominn mann, þó ekki yrði honum meint af. Vinnulaun voru fyrst einn dollar á dag, svo seinna 15 dollarar um mánuðinn. En þegar vetur gekk í garð, fóru bændur ekki að borga nema fimm dollara um mánuðinn. Fór Stefán þá norður til Pulsifer, sem er vestur af Green Bay; þar höfðu nokkrir Íslendingar sezt að. Vann hann þar skógarvinnu um veturinn fyrir 15 dollara um mánuðinn. Um vorið fór hann aftur til Milwaukee og vann, þar um sumarið þar í september. Vinnulaun hans



Stefán Eyjólfsson.

voru fyrst 75 cents á dag án fæðis, svo einn dollar á dag um nokkrar vikur, svo verkstjórakaup $1.25 á dag.

Frá Milwaukee fóru í septembermánuði 13 Íslendingar í hópi til Manitoba; þeir mættu fólkinu frá Ontario í Duluth. Ferðin gekk seint til Winnipeg, og þann 15. október lögðu menn þaðan af stað til Gimli og komust þangað á síðasta sumardag, 22. október 1875.

Þegar búið var að koma upp skýli yfir fólkið á Gimli, voru þrír menn sendir út til að leita veiðidýra; það voru: Stefán Eyjólfsson, Páll Jóhannsson frá Víkingavatni og Everett Parson, canadiskur veiðimaður. Þeir fóru fyrst norður vatn til Black-eyjar og fundu þar spor eftir veiðidýr, og leituðu þeirra, en varð árangurslaust, því það var með dýrin eins og sagt er um lóungana: "alla étið hafði þá hrafn fyrir hálfri stundu." Kynblendingur hafði skotið heila elk-hópinn og flutt burtu. Síðan héldu sendimenn áfram leitinni norður austan við vatnið, og svo suður að vestanverðu. Þá var kominn allmikill snjór, og þar eð dýr var ekki að finna á minna en frá 15—20 mílur frá vatni, var ókleift fyrir leitarmenn að fá þá björg. Þeir komu aftur til Gimli á aðfangadag fyrir jól, eftir tveggja vikna útivist í frosti, oftast 54 stig fyrir neðan zeró.

Þennan fyrsta vetur sinn í Nýja Íslandi vann Stefán á landi tvær mílur vestur af Gimli og sáði þar í sjö ekrur hveiti um vorið, sem ekki gaf uppskeru, af því undirbúningur var ófullkominn. Verkin á landi þessu seldi hann manni, sem seinna tók landið.

Stefán var búinn, þegar faðir hans kom að heiman 1876, að velja fjórar bújarðir norður við Íslendingafljót, eina handa föður sínum, jörðina Unaland; eina handa sér, en tvær handa bræðrum sínum. Einni þessari jörð töpuðu þeir sökum þess að þriðji bróðirinn, Þorsteinn, var fjarverandi.

Stefán vann hjá föður sínum fyrstu árin hans á Unalandi. Svo fljótt sem hægt var, byrjuðu feðgarnir á kornrækt. Sumarið 1877 sáði Stefán í gamlan Indíánagarð hveiti. Það óx vel, en bletturinn var lítill, svo hveitið, sem þeir fengu af honum, hrökk að eins til útsæðis sumarið 1878 í akur, sem þeir plægðu 1877. Það sumar, 1878, fengu feðgarnir góða uppskeru af hveiti og fór Stefán með sumt af því til mölunar upp til St. Andrews snemma í janúar

1879, og flutti hann þá heim með sér það fyrsta hveitimjöl úr korni ræktuðu í Nýja Íslandi.

Seinni part vetrarins 1877 (bólu-veturinn) hafði Stefán á hendi flutning stjórnarlánsins fyrir norðurhluta Nýja Íslands, og eftir það hafði hann talsvert starf við flutninga vetur og sumar, meðan hann dvaldi í nýlendunni.

Veturinn 1877—78 var sá bezti vetur, sem verið hefir síðan útflutningar hófust frá Íslandi til Norður-Ameríku. Á honum öndverðum fór Stefán í landaskoðun með tveimur nágrönnum sínum, Halldóri Jónssyni og Jóhannesi Sigurðssyni. Þeir könnuðu land alt frá 20—25 mílur vestur og gaf Stefán skýrslu yfir landslag. Skýrslan lýsti jafnt ókostum sem kostum og var þess vegna ekki birt opinberlega.

Um burtför sína úr Nýja Íslandi og orsök til hennar, fer Stefán þessum orðum.

"Eins og áður er sagt, höfðum við nú ekki nema þrjú lönd, en vorum fjórir bræður, svo faðir minn áleit, að eg væri okkar færastur að útvega mér pláss. Svo árið 1879 fór eg að hugsa um, hvar leita skyldi. Nú þekti eg alt Nýja Ísland og gat ekki felt mig við nokkurt pláss þar, eftir að hafa yfirgefið Unaland, en mjög saknaði eg fólksins og fór þaðan óglaður 5. júlí 1880.

Stefán settist að í Pembina í Norður Dakota og vann landvinnu á sumrum í þrjú ár, en var í Pembina á vetrum. Árið 1882 tók hann heimilisréttarland í Garðar-bygð og hefir búið þar síðan. 29. október 1885 giftist hann Guðrúnu Þorláksdóttur Björnssonar, bónda í Fornhaga, Þorlákssonar dannebrógsmanns á Skriðu, Hallgrímssonar. Börn þeirra eru 8: Það elzta dóttir, sem Þórdís hét, dó; þau, sem lifa eru: Sesselja, Þorlákur, Þórdís, Margrét, Pearl, Magnús, Björn.

Stefán er gáfaður maður. Áður hann fór af Íslandi, frá því um 187[illegible] til 1874 las hann, þó lítinn tíma hefði, ensku af kappi og gat lesið, skrifað og talað málið, þegar hann fór til Ameríku. Hann hefir verið í ýmsum deildum sveitarstjórnar í Garðar-bygð, héraðsstjóri (County Commissioner) í þrjú ár, og ríkisþingmaður 1894. Hann er vel gætinn og athugull maður.

---

**Sigurður Eyjólfsson,** fæddur á Unaósi 1851; bjó fyrst á Akranesi, en nú í Víðirbygð; kom til Ameríku 1876.

Kona hans er Rósa Gísladóttir, bónda á Gíslastöðum í Breiðuvík. Börn: 1. Guðlaug Sesselja, 2. Vilberg Gunnsteinn, 3. Tryggvi Edward (var í 223. herdeildinni), 4. Friðný, 5. Steinunnn Guðfinna, 6. Guðfinna.

---

**Þorsteinn** Eyjólfsson á Hóli, fæddur á Unaósi 4. nóvember 1854. Kona hans er Lilja Hallsdóttir, ættuð úr Skagafirði; þau giftust 6. júní 1886; börn 13, lifa 11: 1. Eysteinn, býr á Húsabakka, kona hans Sigurlaug Guðríður Sigurðardóttir Jónssonar í Njarðvík, Sigurðssonar; 2.



Arnljótur B. Olson

Þorsteinn Eyjólfsson og Lilja Hallsdóttir.

Magnús, giftur Aðalheiði Jónsdóttur Austmanns, Jónssonar í Bót í Hróarstungu, býr í Fljótsbygð; 3. Sigrún, gift Stefáni Jónssyni bónda í Argyle; 4. Ásvaldur, fór í stríðið yfir til Frakklands, nú kominn heim, var áður orðinn Canadian Engineer; 5. Sigurjón, vélkyndari á C. N. R. brautinni; 6. Stefán, 7. Emilia, 8. Una Herdís,, 9. Friðrik, 10. Sesselja, 11. Gunnar.

Þorsteinn ólst upp á Unaósi hjá föður sínum, fluttist með honum á Seyðisfjörð vorið 1875, vann þar um sumarið hjá Norðmönnum við fiskiveiðar, sigldi svo um haustið til Noregs með Abrahamsen skipstjóra. Hann var með

Norðmönnum í siglingum tvö sumur, en þrjá vetur var hann í Noregi, vann á sögunarmyllu og við skipasmíði. Á siglingaferðum sínum kom hann til Englands, Skotlands, Frakklands, Þýzkalands, Rússlands, Svíþjóðar. Sumarið 1876 komst hann í hættu í Norðursjónum. Skipið, sem hann var á og var hlaðið kolum, bilaði og munaði litlu að væri sokkið, þegar sænsk skonnorta kom að og bjargaði mönnunum á síðustu stundu. Þegar um lífsvon var að tala, þá voru þeir búnir að berjast á milli lífs og dauða í sólarhring. Skipstjórinn fékk sár á höfuðið um leið og skipið brotnaði, og timburmaðurinn fótbrotnaði, svo það voru að eins fjórir menn, sem gátu unnið við að pumpa út vatnið. Björgunarbátar, sem voru að eins tveir, brotnuðu í stórsjávar ölduganginum.

Eftir tvær vikur frá því skipverjum var bjargað, voru þeir settir á land við Haugasund í Noregi. Sænska skipið hafði mótbyr, sem tafði mikið gang þess, svo í alt voru þá fjórar vikur liðnar frá því að skipið, sem brotnaði, lagði frá Skotlandi.

Í marzmánuði 1878 lagði Þorsteinn af stað frá Noregi til Ameríku, fór á seglskipi frá Mandal til Liverpool á Englandi og þaðan é seglskipi, sem Campbell hét, til Baltimore í Bandaríkjunum, var mánuð á leiðinni yfir Atlantshaf. Byrjaði svo ferð sína til Nýja Íslands og var, eftir að hafa tafist á leiðinni, kominn norður að Íslendingafljóti á fimtudag 6. júní. Það sem eftir var sumars, vann hann hjá fólki sínu á Unalandi.

Þegar Stefán bróðir Þorsteins fór burtu úr Nýja Íslandi suður til Dakota, þá lét hann Þorstein í eftir jörðina Hól, sem hann hafði fest sér og umráð á, og setti Þorsteinn svo heimilisrétt sinn á landið og hefir búið þar síðan.

Þorsteinn er búmaður sem faðir hans var, og gáfur til bóknáms, sem hinir bræður hans, hefir hann haft góðar.

---

**Gunnsteinn Eyjólfsson,** fæddur á Unaósi á sunnudag 1. apríl 1866, dáinn í Rocnester, Minnesota, á Mayo Brothers' sjúkrahúsinu, á fimtudag 3. marz 1910. Fluttist til Ameríku með foreldrum sínum 1876, giftist 1888 Guðfinnu Eiríksdóttur Sigurðssonar í Heiðarseli, Benediktssonar á Rangá, Grímssonar prests á Hjaltastað, Bessasonar.

Börn þeirra eru níu: 1. Victor, kaupmaður í Riverton, giftur Láru Jóhannesdóttur Helgasonar og Jakobínu Sigurðardóttur Erlendssonar; 2. Jón, býr með móður sinni að Unalandi; 3. Sesselja, gift Árna Guðmundssyni í Riverton; 4. Axel, 5. Vilborg, 6. Þórdís (báðar námsmeyjar á Jóns Bjarnasonar skóla), 7. Albert, 8. Margrét, 9. Elísabet.



Gunnsteinn Eyjólfsson.



Guðfinna Eiríksdóttir.

Gunnsteinn sál. tók heimilisréttarland 1895, en bjó alt af á Unalandi. Hann var einn sá fjölhæfasti gáfumaður meðal Íslendinga vestan hafs. Sár missir í honum, þegar hann lézt.

---

**Halldór Jónsson,** á Halldórsstöðum, bróðir Þorgríms á Akri, fæddur á Álfgeirsvölllum í Skagafirði 1836, dáinn 30. apríl, 1912; kom til Ameríku 1876; nam land í Fljótsbygð og nefndi Halldórsstaði og bjó þar til þess hann lézt. Kona hans var Ingibjörg Jónatansdóttir bónda í Litlaskógi á Árskógsströnd, Jónssonar prests á Bægisá, Þorlákssonar. Kona Jónatans, móðir Ingibjargar, Hólmfríður Gunnlaugsdóttir bónda á Hellu á Árskógsströnd. Börn: 1. Páll, bóndi í Geysirbygð, faðir Dr. Jóhannesar Pálssonar í Elfros, Sask.; 2. Margrét, kona Eggerts Stefánssonar bónda í Shoal Lake bygð; 3. Baldvin, bóndi í Geysirbygð; 4. Bergur, vestur í Saskatchewan; 5. Indíana, gift manni af ítölskum ættum, búa vestur við haf; 6. Jóhann Hargrave, giftur konu af enskum ættum, búa í Winnipeg; 7. Jón, bóndi í Víðirbygð;

8. Halldór, bóndi við Dog Lake; 9. Tryggvi, bóndi í Víðirbygð; 10. María, gift Tómasi Sigurðssyni bónda í Geysirbygð; 11. Tistram, er vestur við haf.

---

**Stefán Benediktsson**, síðast á Bakka við Íslendingafljót, sem fyrst var kallað Akranes; fæddur á Hofströnd í Borgarfirði í Norður-Múlasýslu 4. september 1834, dáinn 29. desember 1914. — Foreldrar Stefáns voru Benedikt bónda á Hofströnd Gíslason, og kona hans Vilborg Guð-



Stefán Benediktsson og Sigurbjörg Jónsdóttir.

mundsdóttir, systir Jóns í Kelduskógum á Berufjarðarströnd, sem Kelduskógaætt er frá komin. Gísli faðir Benedikts bjó í Njarðvík og var Halldórsson prests á Desjarmýri, Gíslasonar, bróður Árna Gíslasonar í Höfn, föður Jóns og Hjörleifs Hafnarbræðra. Kona Gísla í Njarðvík, móðir Benedikts á Hofströnd, Helga Þorvarðsdóttir prests á Klippstað.

Kona Stefáns Benediktssonar fyrri, Helga Þórarinsdóttir, fædd á Hvalnesi í Suður-Múlasýslu; lézt um eða skömmu fyrir 1880. Sonur þeirra, Þorvarður á Bakka við Íslendingafljót. Seinni kona Stefáns, Sigurlaug Jónsdóttir frá Njarðvík Sigurðssonar.

Stefán fluttist til Ameríku 1886, bjó fyrst á heimilisréttarlandi, sem hann kallaði Ás, skifti svo við Sigurð Eyjólfsson á Akranesi á hálfu Akraneslandi og hálfu Áslandi flutti svo að Akranesi 1892, og kallaði bæ sinn, sem hann bygði þar, Bakka, eftir Bakka í Borgarfirði, þar sem hann bjó síðast á Íslandi. Bjó áður hann fór þangað lengi á Jökulsá í Borgarfirði.

---

**Þorvarður Stefánsson** á Bakka, Benediktssonar, fæddur á Jökulsá í Borgarfirði 29. desember 1859. Kona hans var Guðríður Jónssdóttir frá Njarðvík Sigurðssonra; hún



Þorvarður Stefánsson og Sigurbjörg Jónsdóttir.

lézt 5. október 1911. Börn 4, lifa tvö: Stefán Helgi og Sigurlín Ágústa, gift Jóhanni Guðfinn Bjarnasyni; búa á Bakka hjá Þorvarði.

Þorvarður bjó á Íslandi á Bakka í Borgarfirði í félagsbúi við föður sinn. Fluttist sama ár og hann til Ameríku, 1886; bjó fyrst á heimilisréttarlandi sínu, sem hann kallaði Laufás, flutti svo að Bakka sama ár og faðir hans, árið 1892.

---

**Sigfús Björnsson** í Fagranesi, fæddur á Ketilsstöðum



í Hjaltastaðaþinghá 18. maí 1863. Foreldrar hans voru Björn Jónsson, dáinn í Fagranesi í September 1894, og kona hans, Björg Halladóttir frá Nefbjarnarstöðum í Hróarstungu; er á lífi, býr á Árbakka við Íslendingafljót. Foreldrar Björns voru Jón Sigfússon bóndi á Geirastöðum í Hróarstungu, og kona hans Ingibjörg Jónsdóttir, systir Magnúsar á Brennistöðum og fleiri systkina; (sjá seinna í ætt Jóns Hildibrandsonar).



Margrét Sveinborg Jóhannsdóttir

Kona Sigfúsar var Margrét Sveinborg Jóhannsdóttir, ættuð úr Norðurlandi. Þau giftust árið 1900, hún lézt 1912, 16. janúar. Börn: 1. Margrét Elinborg, 2. Björn, 3. Björg, 4. Jóhanna Vilborg, 5. Ingibjörg Sveinborg, fædd sama mánaðardag og móðir hennar lézt, 16. janúar 1912.

Sigfús ólst upp hjá foreldrum sínum, sem bjuggu á ýmsum bæjum í Hróarstungu og Jökulsárhlíð; hann var seinast hjá þeim í Fremraseli og fór þaðan til Ameríku 1888. Skipið fór af Seyðisfirði 7. júlí, ætlaði til Norðurlands, en varð áð snúa aftur vegna íss; sigldi aftur austur að Héraðsflóa og svo suður í haf.

Sigfús kom til Winnipeg 1. ágúst, var þar einn dag og fór svo út á land í bændavinnu, um það 102 mílur frá Winnipeg, réðist hjá bónda til þriggja mánaða upp á 70 dollara fyrir allan tímann, átti að hafa 20 dollara fyrsta mánuðinn. Svo þegar hann var liðinn, sagði bóndi Sigfúsi upp vinnunni. Kvaðst ekki geta borgað manni, af því að peninga inntekt sín yrði svo lítil sökum þess að frost, sem kom um það viku af ágúst, hefði skemt uppskeru sína. En svo borgaði hann ekki mánaðarkaupið og það fékk Sigfús ekki fyr en eftir ár. Baldvin L. Baldvinsson hafði það út fyrir hann.

Eftir það fékk hann vinnu á járnbraut við viðhaldsstarf (sction-vinnu) og var þar til þss fraus upp, vinnulaun 1 dollar og 25 cnt. á dag. Fæði kostaði 50 cnt. á dag.

Svo fékk hann vinnu við þreskingu, vinnulaun 1 dollar á dag og fæði frítt. Eftir þrjár vikur var þreskivinnan búin. Sigfús gekk þá inn til Winnipeg og var þar fáa daga, fór svo ofan til Nýja Íslands og var þar hjá ýmsum kunningjum sínum þar til í marzmánuði, og fór þá upp til Winnipeg aftur.

Nú skal fljótt yfir sögu farið, því þar til að Sigfús settist að fyrir fult og alt á Fagranesi 20. marz 1898, vann hann í mörgum stöðum: í Keewatin, Winnipeg, á járnbrautum, austur í Duluth, suður í Dakota við þreskingu og í Argyle, leigði þar einu sinni 100 ekrur í akri, fékk rýra uppskeru. Líka vann hann við að flytja fisk til járnbrautar norðan af Winnipegvatni og frá Winnipegosis; keypti sér hestapar í Argyle, ók á þeim alla leið þaðan til Nýja Íslands. Þegar hann var heima, sem ekki var oft, gerði hann umbætur á landi sínu. Hann minnist þess, hve heimili hans var tómlegt, þegar hann settist þar alveg að 20. marz 1898, sem áður er sagt. Það var þá í eyði. Foreldrar hans höfðu áður búið þar um tíma. Faðir hans lézt 1894, sem fyrr er sagt.

Utan heimilis hefir hann oft unnið við fiskiflutninga a vetrum síðan hann settist að.

Sigfús ann mjög íslenzkum sagnafræðum og ættfræði, hefir ánægju af að tala um hvorttveggja.

Frumbyggjari á Fagranesi var kona, Þórunn Jónsdóttir úr Skagafirði, móðir Stefáns Kristjánssonar bónda í Argyle-bygð.

---

**Sigurður Jónsson** á Keldulandi, fæddur á Lýtingsstöðum í Skagafirði 21. nóvember 1872. Foreldrar hans voru Jón Ólafsson og kona hans Ragnheiður Jóhannsdóttir, Jóhannessonar á Vindheimum. Bróðir Jóns föður Sigurðar var Benedikt Ólafsson, sem bjó í Flatatungu í Árnesbygð í Nýja Íslandi, flutti til Dakota, faðir Bjarna Benediktssonar bónda að Mountain, N. D.

Kona Sigurðar er Sigríður Björnsdóttir, systir Sigfúsar í Fagranesi og Halla á Vindheimum. Börn: 1. Lissie Helga, 2. Ragnheiður Sigrún, 3. Björn, 4. Jón, 5. Björg Alice, 6. Sigfús Þórhalli, 7. Gunnfríður Stefanía, 8. Sigurður Jóhannes.

Sigurður fluttist til Ameríku 1883; fór fyrst til Norður Dakota og var þar 13 ár, svo í Winnipeg 3 ár; 1899 sett-

ist hann að við Íslendingafljót og hefir búið þar síðan, á

**Jóhannes Jóhannsson** á Árbakka; fæddur á Vindheim-
Keldulandi.

---

um í Skagafirði 26. nóvember 1838; foreldrar hans voru Jóhann Jóhannesson hreppstjóri á Vindheimum og kona hans Þóra Eiríksdóttir Jóhannssonar. Kona Jóhannesar á Árbakka var Margrét Sigurðardóttir, ættuð úr Skagafirði, látin fyrir mörgum árum; áttu eina dóttur, er heitir Elinborg, gift enskum manni og býr í Winnipeg.

Jóhann kom til Ameríku 1876 og hefir búið á Árbakka síðan.

---

**Halli Björnsson** á Vindheimum, bróðir Sigfúsar í Fagranesi, fæddur á Stórabakka í Hróarstungu 1. júní 1877. Kona Halla, Guðrún Gísladóttir úr Skagafirði. Börn 13, hvar af 11 lifa: 1. Halldór, 2. Björg, 3. Gísli, 4. Bjarni, 5. Magnússína, 6. Björn, 7. Gunnsteinn Halli, 8. Pétur Steinn, 9. Jóhannes , 10. Tómas, 11. Dýrun Ólína.

Halli kom til Ameríku með foreldrum sínum 1889. Á Vindheimum, þar sem Halli býr, var frumbyggjari Jóhann Jóhannsson frá Steinsstöðum í Skagafirði, bróðir Jóhannesar á Árbakka, fæddur á Vindheimum í Skagafirði 19. september 1831, dáinn að Hallson, North Dakota, 24. febrúar 1919; kom til Ameríku 1876, flutti til Dakota 1882. Sonur hans er hinn alkunni gáfumaður, Eggert Jóhannsson í Vancouver.

Ein meðal jarða þeirra, sem Halli á, er Steinnes; þar var frumbyggjari Jóhann Jóhannsson frá Seilu í Skagafirði; kom til Ameríku 1876, bjó á Steinnesi til dauðadags; látinn fyrir nokkkrum árum. Var tvíkvæntur, misti fyrri konu sína úr bólunni, dó barnlaus.

---

**Jóhann Kristjánsson** frá Krithóli í Skagafirði; kom til Ameríku 1876, bjó á Keldhólum við Fljótið; flutti til Dakota, látinn.

---

**Páll Pétursson** á Húsafelli, fæddur 10. febrúar 1828, dáinn 9. marz 1895. Foreldrar hans, Pétur Guðmundsson bóndi á Marbæli í Óslandshlíð, druknaði 1828, og kona hans Guðrún Sigurðardóttir, fædd 5. ágúst 1792. Kona Páls, Margrét Magnúsdóttir, er enn á lífi, fædd 4. janúar 1834; foreldrar hennar, Magnús Jónsson bóndi á Páfastöðum, fæddur 3. júlí 1807, og kona hans Sólborg Jónsdóttir bónda

í Flugumýrarhvammi. Börn Páls og Margrétar voru 13, hvar af fimm þau elztu dóu á Íslandi, en fimm í Ameríku, fjögur af þeim úr bólunni fyrsta haustið í Nýja Íslandi, það elzta af þeim, Jóhann Pétur, fæddur 1862; 2. Sigmundur, fæddur 1866; 3. Magnús Jóhann, fæddur 1870; 4. Margrét Ingibjörg, fædd 1873; 5. Sigríður, dó á fyrsta ári, fædd 1876. Systkinin, sem lifa, eru: 1. Margrét Guðrún, kona Jóhanns Briem á Grund; 2. Jón Sigurður, bóndi í Víðirtungu; 3. Elín Jóhanna, gift Valdemar Hálfdánarsyni frá Bjarkarvöllum.

Páll bjó á Reykjarhóli í Skagafirði, flutti þaðan til Ameríku 1876, bjó á Húsafelli, landnámsjörð sinni, nokkur ár, flutti svo að Húsabakka og bjó þar til þess hann lézt.

---

**Jón Bjarnason** á Húsafelli flutti frá Kaðalsstöðum í Borgarfirði til Ameríku 1888, látinn 4. janúar 1919. Hann var tvíkvæntur; fyrri kona Guðný Guðmundsdóttir, ættuð úr Borgarfirði; börn þrjú: 1. Sólveig, gift Vilhjálmi Jónssyni í Riverton; 2. Bjarni, býr á Húsafelli, giftur Guðrúnu Böðvarsdóttur, ættaðri úr Hafnarfirði; 3. Guðný Helga. Seinni kona Ragnheiður Sigurbjörnsdóttir, lifir mann sinn.

Fyrstu ár sín hér í landi var Jón í Duluth og Winnipeg. Hafði búið 17 ár á Húsafelli, þegar hann lézt.

Húsabakka, þar sem Eysteinn Þorsteinsson frá Hóli býr, bygði fyrst Magnús Guðmundsson frá Hálfdánartungu ;kom til Ameríku 1876, flutti til Dakota, nam þar land í Hallson-bygð; var faðir Árna og Kjartans Magnússona, sem búa þar.

**Einar Þorkelsson** í Fljótstungu, fæddur í Norðfirði í Suður-Múlasýslu, dáinn 1907; kona hans, Guðlaug Gísladóttir frá Hofströnd Benediktssonar. Synir: 1. Gísli, býr á Hólum, á Sigurbjörgu dóttur Jóns Björnssonar fyr bónda á Grund fyrir sunnan Sandy Bar, nú í Víðir-bygð; 2. Þórarinn, býr í Fljótstungu, kona hans Kristin Böðvarsdóttir.

Einar bjó á Jökulsá í Borgarfirði; flutti þaðan til Ameríku 1889.

---

**Sigfús Gíslason,** ættaður úr Skagafirði, fæddur þar og uppalinn; dáinn í Morden-bygð, Brown P. O., Man., rúmlega níræður að áliðnum vetri 1913; bygði fyrst á Reyni-



völlum 1876, kom frá Íslandi það ár, flutti til Dakota 1880, til Morden-bygðarinnar 1899. Kona hans, Rannveig Árnadóttir bónda á Bakka í Skagafirði Gíslasonar. Móðir Rannveigar, kona Árna, Guðbjörg Gísladóttir, Jónssonar biskups á Hólum, Teitssonar. Börn á lífi: 1. Rannveig, vestur í Alberta; 2. Sigurbjörg, kona Sveins Árnasonar í Bremerton, Wash.; 3. Ingibjörg, kona Jónasar Jónssonar, Markerville, Alta.; 4. Jón, bóndi í Morden-bygð, kvæntur Önnu Jónsdóttur bónda frá Flatatungu Gíslasonar.

Sigfús var gáfumaður, hafði gott minni, var vel kunnugur sögu Skagfirðinga, hafði mikla ánægju af að tala um það, sem auðgað gat andann.

---

**Jóhannes Helgason** á Reynivöllum, fæddur á Brúarfossi í Hraunhreppi í Mýrasýslu 10. október 1870. Foreldrar hans voru Helgi Illugason bóndi á Brúarfossi og



Jóhannes Helgason.



Jónína Jóhannesdóttir.

kona hans, Ásta Einarsdóttir. Ætt Jóhannesar hefir verið greinilega samin í Reykjavík árið 1887, rakin upp til Vatnsfirðinga og Mýramanna og fleiri fornmanna.

Jóhannes er tvíkvæntur; fyrri kona, Jónína Gyríður Jóhannesdóttir frá Geitavík í Borgarfirði eystra. Börn 5 á lífi: 1. Ásta, 2. Helga, 3. Jóhanna, 4. Guðrún Aðalheiður, 5. Emilía Soffía.

Önnur kona, Guðríður Sæmundsdóttir, ættuð af Barðaströnd. Börn: 1. Jónína Emilía Jóhanna, 2. Sæmundína Ágústa.

Jóhannes kom til Ameríku 1887, var fyrst þrjú ár í Winnipeg, svo eitt ár í Victoria, B. C., svo í Winnipeg til 1901. Flutti þá í Fljótsbygðina og hefir búið mestallan tímann síðan á Reynivöllum.

---

**Jón Pétursson,** frá Kolgröf í Skagafirði var frumbyggjari í Víðirnesi, en flutti til Dakota og svo til Alberta.

---

**Jóhannes Jónsson** í Víðirnesi, fæddur í Geitavík í Borgarfirði eystra 1. des. 1838, dáinn 12. júlí 1913. Foreldrar Jón Magnússon bóndi í Geitavík og kona hans Sólveig Jó-



Arngjótur B. Olson

Jóhannes Jónsson og Guðrún Högnadóttir.

hannesdóttir bónda í Fjallseli í Fellum í N.-Múlas. Magnús föðurfaðir Jóhannesar var ættaður úr Norðurlandi, var gáfumaður, komst í Bessastaðaskóla, en varð að hætta við nám sökum óljósra atvika; hefir víst verið kominn nokkuð langt í latínu að ráða af því, að hann var kallaður latínu-Magnús, eftir að hann hætti námi. Hann fluttist austur á land og bjó í Hvannstöð í Borgarfirði.

Kona Jóhannesar í Fjallsseli, móðir Solveigar, móður Jóhannesar í Víðirnesi, hét Guðrún Þorkelsdóttir, systir

Gunnlaugs bónda á Eiríksstöðum á Jökuldal. Börn þeirra Fjallselshjóna voru 18, margt manna frá þeim komið.

Jóhannes í Víðinesi var tvíkvæntur; fyrri kona hans hét Guðrún Högnadóttir frá Kjólsvík í Borgarfjarðarhreppi eystra; af fimm börnum þeirra er á lífi ein dóttir, Solveig kona Þorsteins Guðmundssonar frá Geitadal í Suður-Múlasýslu. Þau búa að Milton, N. D. Seinni kona Jóhannesar hét Halldóra, ættuð úr Skagafirði.

Jóhannes bjó á Íslandi tvö ár í Geitvík og fimm ár á Setbergi í Borgarfirði; fluttist til Ameríku 1877. Hann bygði fyrst fyrir vestan Sandy Bar og kallaði bæ sinn þar Akravelli, var þar þrjú ár, flutti svo vestur að Fljótinu að Víðirnesi og bjó þar til dauðadags. Hann var bókhneigður maður og hafði gott minni.

---

**Björn Jónsson** í Straumnesi, bróðir Jóhannesar í Víðinesi, fæddur í Geitavík 1. janúar 1841, dáinn 15. september 1912; giftist 21. desember 1877. Kona Björns, sem



Björn Jónsson og Jakobína Jónasdóttir og börn þeirra.

lifir mann sinn, er Jakobína Jónasdóttir Jónssonar; sá Jón var bróðir Ólafar móður Hólmfríðar konu Björns Halldórssonar frá Úlfsstöðum. Móðir Jakobínu hét Þórný Þor-

steinsdóttir Jakobssonar; móðir Þorsteins, hét Kristbjörg dóttir Jóns ríka í Ási í Kelduhverfi, systir Þorsteins í Reykjahlíð, sem Reykjahlíðar-ættin er frá komin.

Börn Björns og Jakobínu: 1. Jónína Solveig, gift W. G. Rockett, af enskum ættum, búa í Riverton; 2. Kristján Jóhannes; 3. Eiríkur Karl; 4. Sigríður Stefanía, gift Guðjóni Egilssyni; 5. Jakob Alexander.

Björn ólst upp í Geitavík og var þar til þess 1872, að hann fór að Setbergi og var þar til þess 1877, er hann flutti til Ameríku. Hann bygði sér fyrst heimili, sem hann nefndi Akurhól, seinna nefnt Hvoll, og var þar fjögur ár, nam svo land og nefndi Straumnes, og bjó þar til þess hann lézt. Hann var bóklesinn og fróður, trúmaður og bar jafnan hærra hlut, ef hann leiddist út í trúmálastælur við einhvern.

---

**Þorgrímur Jónsson** á Akri, fæddur á Álfgeirsvöllum í Skagafirði 5. nóvember 1841. Faðir hans var Jón Pálsson



Þorgrímur Jónsson og Steinunn Jóhannsdóttir.

bóndi á Álfgeirsvöllum, svo á Reykjarvöllum, þá aftur á Álfgeirsvöllum og síðast á Miðvatni, fæddur 1789, dáinn 1874. Faðir Jóns var Páll Einarsson bóndi á Heiði í Göngu-

skörðum; kona hans, móðir Jóns, hét Guðrún, ætt ókunn. Kona Jóns Pálssonar, móðir Þorgríms á Akri, Margrét Halldórsdóttir frá Kirkjubóli. Halldór sá mun hafa gifst á Hóli í Svarfaðardal konu sinni, sem Guðbjörg hét, og eitthvað búið þar, að álykta má af vísum tveim, sem Jón prestur á Auðkúlu kvað um hann:

Að siðprýði alræmdur,
eignist miða séðan,
Halldór sama sannur bur,
sem í vor fór héðan.

Hann við enga seimasól
sínar batt hér trygðir,
Svartárdals að hermdum hól
hefir fluttar bygðir.

Foreldrar Halldórs voru Halldór Helgason bóndi á Mosfelli og kona hans Ólöf Bjarnadóttir bónda á Hrafnabjörgum í Svínadal Jónssonar.

Í föðurætt er Þorgrímur 10. maður frá Marteini Skálholtsbiskupi, d. 1568, Einarssyni Ölduhryggjar-skálds. Í móðurætt er hann sá 10. frá Magnúsi prúða sýslumanni í Ögri við Ísafjörð; hann var sonur Jóns sýslumanns á Svalbarði Magnússonar. Móðir Magnúsar prúða var Ragnheiður á rauðum sokkum, komin frá Lofti ríka Guttormssyni. Kona Magnúsar prúða var Ragnheiður Eggetrsdóttir, lögmanns í Bæ á Rauðasandi, Hannssonar hirðstjóra Eggertssonar. Ragnheiður dó 98 ára gömul 1642.

Kona Þorgríms er Steinunn Jóhannsdóttir, bónda á Vindheimum í Skagafirði, f. 1809, og konu hans, Þóru Eiríksdóttur frá Héraðssveit, Eiríkssonar frá Litluhlíð. Faðir Jóhanns var Jóhannes Jónsson hreppstjóri á Vindheimum, fæddur 17. janúar 1788, dáinn 1862. Kona hans, Arnfríður Eyjólfsdóttir frá Þorleifsstöðum, komin frá Magnúsi prúða. Steinunn er því í 9. lið komin frá Magnúsi. Hún er föðursystir Eggerts Jóhannssonar, fyrrum ritstjóra Heimskringlu, en systir Jóhannesar á Árbakka. Föðurætt þeirra, þ. e. ætt Magnúsar prúða, er hægt að rekja til Egils Skallagrímssonar. En móðurætt Steinunnar verður rakin til Auðar djúpauðgu.

Þorgrímur og Steinunn giftust 1871. Börn þrjú; eitt dó úr bólunni, en tvær dætur lifa: Sigrún Jóhanna, kona Jóns Sigvaldasonar á Akri, og Morgrét Þóra, kona Ás-

mundar Eyjólfssonar í Winnipeg. Ásmundur er sonur Eyjólfs Eyjólfssonar frá Dagverðargerði í Hróarstungu, sem býr að 602 Maryland str., Winnipeg.

Þorgrímur flutti frá Miðvatni í Skagafirði til Ameríku 1876, og hefir búið á Akra síðan hann nam landið þá um haustið 1876. Hann er gáfumaður, varð í æsku að láta sitja við sjálfsmentunina, því ekki átti hann kost á að ganga skólaveginn. Hann varð að vinnna harða vinnu á landi og sjó, reri fjórum sinnum suður á landi og sex ár við Drangey, og mun hann þá stundum hafa horfið í hug-



**Jón Sigvaldason og Sigrún Þorgrímsdóttir.**

anum aftur í tímann og horft á Grettir kljúfa öldurnar inn að Reykjum, og virt fyrir sér kappann og bróður hans, er báðir lifðu útlegðarlífi í eynni og létu þar lífið af fjölkyngis-áhrifum hennar Önguls-fóstru árið 1031.

Sund lærði Þorgrímur í æsku og skemti sér oft á því í kring um Drangey og líka á Íslendingafljóti, alt til nálægs liðins tíma; á skautum skemti hann sér þar seinast 1917. Homoöpata lækningar hefir hann stundað nærri allan tíma sinn í Fljótsbygð og hepnast vel, og sælt er að líta yfir liðna æfi og sjá að að maður hafði á henni hjálpað bræðrum og systrum, þegar þeim lá mest á.

*Arnljotur B. Olson*

**Jón Sigvaldason** á Akri, fæddur á Hellulandi í Hegranesi í Skagafirði 12. janúar 1866. Foreldrar hans Sigvaldi skáld Jónsson og kona hans Soffía Jónsdóttir frá Ögmundarstöðum í Skagafirði. Kona Jóns er Sigrún Jóhanna, dóttir Þorgríms á Akri, sem fyrr er getið. Börn á lífi fjögur: 1. Kapítóla, námsmey á Jóns Bjarnasonar skóla; 2. Valdína Steinunn, líka námsmey á sama skóla; 3. Þorbjörg Aurora, 4. Alvin Soffonias.

Jón kom til Ameríku 1892, var í Winnipeg fimm ár; 1897 settist hann að í Fljótsbygð, nam land og nefndi Sunnuhvol. Þegar hann var búinn að fá eignarrétt á því, flutti hann að Akri og hefir búið þar síðan.

---

**Eiríkur Eymundsson** á Odda, fæddur í Kumblavík á Langanesi í Norður-Þingeyjarsýslu 11. desember 1844. Foreldrar hans, Eymundur Jónsson og kona hans Steinunn Jónsdóttir frá Kollavík í Þistilfirði. Bróðir Eiríks var Jón Eymundsson, valinkunnur sæmdarmaður, fluttist til Nýja Íslands sama ár og bróðir hans, svo næsta ár suður til Dakota, nam land skamt fyrir suðvestan Pembina: látinn fyrir mörgum árum.

Kona Eiríks, Helga Jóhannesdóttir, ættuð af Langanesi. Börn fimm: 1. Margrét, fyrri kona Júlíusar Jóhannssonar í Grenivík; 2. Jóhann, 3. Kristbjörg, 4. Jón, bóndi á Akranesi, kvæntur Ólöfu Jónsdóttur Austmanns frá Bót í Hróarstungu; 5. María, gift Sigurbirni Doll, fóstursyni Eyvindar Doll, sem býr skamt frá Riverton.

Eiríkur og kona hans hafa alið upp tvö fósturbörn, dótturson sinn, Eirík, son Júlíusar í Grenivík, og Guðnýju Helgu Jónsdóttur frá Húsafelli.

Eiríkur fluttist til Ameríku 1878; hann settist að við Fljótið, lengra vestur með því, árið 1890, og flutti svo að Odda; þar hafði fyrst búið Björn Andrésson, skagfirskur maður, er flutti til Argyle; látinn.

---

**Sigfús Pétursson,** nú bóndi í Víðir-bygð, áður á Víkingsstöðum, og Þykkvabæ, og Skógargerði, í austurparti Fljótsbygðar. Fæddur í Meðalnesi í Fellum í Norður-Múlas. 14. marz 1839. Foreldrar hans, Pétur bóndi í Blöndugerði Einarsson, hreppstjóra og bónda á Setbergi í Fellum, Kristjánssonar bónda á Krossi, og kona hans Guðrún Jónsdóttir bónda á Galtastöðum út Jónssonar, systir Jóns í

Bót föður Jóns Austmanns, sem nefndur hefir verið áður, og Gunnlaugs að Milton, N. D., og fleiri systkina; móðir Guðrúnar, kona Jóns á Galtastöðum, Ólöf Pétursdóttir bónda á Giljum á Jökuldal. Kona Sigfúsar, Þóra Sveinsdóttir bónda á Gvöndarstöðum í Vopnafirði; móðir Þóru, en kona Sveins, Guðrún systir Sigvalda á Búastöðum, föður Sigurðar umferða-trúboða. Börn: 1. Guðrún Salína, giftist skozkum manni, látin; 2. Sigurborg, gift Kristjáni Reykdal, búa í Argyle-bygð; 3. Jóhanna, gift Stefáni B. Jónssyni, trésmið, fluttu til Íslands; 4. Hildur, gift Sigurði Kristjónssyni Finnssonar, bónda í Víðir-bygð; 5. Halldóra, hjúkrunarkona; 6. Sigfús Franklin, giftur Aldísi Magnúsdóttur úr Árnessýslu á Íslandi; 7. Bergrós, gift Ásbirni Pálssyni, lyfsala í Árborg; 8. Sigríður, gift Dr. Jóhannesi Pálssyni, Elfros, Sask.

Sigfús fluttist til Ameríku 1878, var fyrstu ár sín hér í landi á Víkingsstöðum fyrst og svo á Þykkvabæ, sem fyr er sagt, og nam svo land árið 1881 og nefndi Skógargerði, og bjó þar til þess 1905, að hann flutti vestur í Víðir-bygð.

Sigfús og kona hans eru vel kynt, ávalt reiðubúin til að gera öðrum greiða.

---

**Tómas Jónasson** á Engimýri, bróðir Sigtrygggs Jónassonar og Jónasar á Lóni, prentara "Framfara." Tómas er fæddur á Engimýri í Öxnadal 8. ágúst 1845. Foreldrar hans voru Jónas Sigurðsson of kona hans Helga Egilsdóttir Tómassonar frá Syðri Bægisá. Móðir Jónasar Sigurðssonar, Ingibjörg Benediktsdóttir, móðir hennar Guðrún Jónasdóttir bónda í Hvassafelli við Eyjafjörð. Móðir Helgu Egilsdóttur, móður Tómasar, kona Egils, var Vigdís Jónasdóttir frá Hrauni í Yxnadal; móðir Egils, kona Tómasar á Syðri Bægisá, var Helga Daníelsdóttir, systir Þorsteins á Skipalóni í Hörgárdal. Sú ætt er frá Vatnsenda í Ólafsfirði.

Kona Tómasar á Engimýri er Guðrún Jóhannesdóttir bónda á Kjarna og Litlahól í Eyjafirði; Jóhannes var Grímsson; kona hans, móðir Guðrúnar, var Soffía Jósefsdóttir frá Hvammi í Eyjafirði.

Börn Tómasar og Guðrúnar: 1. Helga, kona Þorvaldar Þórarinssonar á Skriðulandi (sjá áður); 2. Jónas, fiskiverzlunarmaður í Riverton, kvæntur Victoriu Flett, af enskum ætttum; 3. Ingibjörg, gift Kristjáni Ólafssyni



járnsmið í Riverton; 4. Rannveig, gift Jósef McLennan; 5. Tómas, giftur Magnúsínu Helgu Jónsdóttur Borgfjörðs Magnússonar bónda að Árborg; 6. Jóhannes, giftur Lilju Guðmundsdóttur Davíðssonar, býr í Riverton; 7. Sigurbjörg, gift enskum manni; 8. Sigurbjörn Óskar, fór í sjóherinn fyrir ári síðan.

Tómas flutti frá Gloppu í Öxnadal til Ameríku 1876, var í Mikley fyrsta veturinn, til húsa hjá Jónasi bróður sínum, sem hafði fest sér land í Mikley; það heitir nú Mel-



Tómas Jónasson og Guðrún Jóhannesdóttir og börn þeirra.

staðir. Í Apríl 1877 flutti hann til meginlandsins, nam land við Íslendingafljót og nefndi Engimýri, og hefir búið þar

Tómas er bókamaður sem frændur hans, en hann eins og fleiri hefir ekki komist á sína réttu hillu til að geta notið gáfna sinna.

Oft hafa Ný-Íslendingar orðið að heyja harðan bardaga við öldur Winnipeg-vatns; t. d. komst Tómas í hættu á því fyrir nærri 35 árum. Í bréfi til þess, sem þetta ritar, segir hann frá þessari hættuför, sem eftir fylgir:

Það var eitthvað átta árum eftir að eg kom hingað, að við fórum til hvítfisksveiða fjórir á bát austur yfir vatnið til Sandy River. Það er á, sem rennur austur í.

Winnipeg-vatn móts við Mikley sunnanverða. Formaður var Árni Andrésson frá Syðri Bægisá í Yxnadal. Andrés faðir hans og Egill Tómasson afi minn voru bræður; annar var Dínus Jónsson, Þingeyingur; þriðji, Antóníus Eiríksson frá Steinaborg í Suður-Múlasýslu, og eg, Tómas Jónasson. Við lögðum af stað 8. október og vorum komnir alla leið um kvöldið. Við biðum viku, þangað til fiskurinn gekk á grunn til að hrygna, fengum góðan afla, eitthvað 1,600 á bátinn, og lögðum af stað heim á leið í góðu veðri þ. 25. Við urðum síðbúnir að taka sumt af netjunum upp um morguninn, svo það var komið að miðjum degi, þegar alt var til, fengum gott veður vestur á mitt sund; þá fór að hvessa af norðvestri með frosti og jeljagangi, og eftir nokkurn tíma síldi bátinn og það var kalt að standa í austrinum. Við vorum verjulausir; svo datt myrkrið á og við sáum ekkert land. Árni frændi stýrði og sagði okkur að halda bátnum í kvikuna og í veðrið, sem við gerðum, eftir því sem kraftar leyfðu. Þannig héldum við áfram og vissum ekki hvað við fórum, þar til við sáum ljós; þá fengum við nýtt þrek og náðum landi milli Borðeyrar og Reykjaness. Borðeyri er suðaustur-tangi Mikleyjar. Hefðum við stefnt hálfri mílu sunnar, þá hefðum við mist eyjuna og þá var ekkert umhverfi, nema opið vatnið. En því er öllu hlíft, sem guð hlífir. Ljósið, sem við sáum, var í kofa, er fiskimenn norðan af eyju voru í; þar var Pétur Björnsson frá Harastöðum, sem margir kannast við og lengi bjó á Ísafold. Við fengum alla hjálp og aðhlynningu, sem hægt var að veita, enda er Pétri viðbrugðið fyrir drenglyndi og hjálpsemi.

Daginn eftir var stilt, en kalt; við rérum vestur með Mikley, ætluðum að ná til Íslendingafljóts, en náðum það ekki vegna íss, svo við komumst upp í mýrar austur af Fagraskógi, gengum þar af bátnum og komumst heim um kvöldið, blautir og hraktir. Þremur dögum seinna þiðnaði svo, að við komum bátnum upp í Fljótið, að öllu heilu og höldnu.

Þetta er lítið sýnishorn af því, sem við nýbyggjarar Nýja Íslands reyndum á okkar fyrstu árum þar. Það voru erviðar ferðir til Selkirk og Winnipeg á þeim tímum.

---

**Jón Guttormsson** á Víðivöllum, fæddur á Arnheiðarstöðum í Fljótsdal 1842, dáinn 1896. Faðir hans var Gutt-



ormur móndi á Arnheiðarstöðum, stúdent frá Bessastaðaskóla, alþingismaður fyrir aðra Múlasýsluna, f. 1804, d. 1856, Vigfússon prests á Valþjófsstað, Ormssonar og konu hans, Bergljótar Þorsteinsdóttur prests á Krossi í Landeyju, og konu hans Herdísar Hjörleifsdóttur prófasts á Valþjófsstað, Þórðarsonar. Móðir Jóns Guttormssonar, kona Guttorms á Arnheiðarstöðum, var Halldóra dóttir, dóttir Jóns vefara bónda á Arnheiðarstöðum og Kóreksstöðum, Þorsteinssonar prests á Krossi í Landeyjum (áður nefnds).

Jón Guttormsson kvæntist 1874 Pálínu Ketilsdóttur frá Bakkagerði í Borgarfirði, f. 1849, d. 1886; hún var gáfukona, vel hagorð. Í 12. tölublaði "Leifs", dagsettu 27. júlí 1883, eru eftir hana þrjár vísur. Vísurnar láta í ljós hlýjar tilfinningar höfundar gagnvart hinu þá fyrir tíu vikum mynduðu íslenzka blaði.

Börn Jóns og Pálínu eru tveir synir: 1. Guttormur skáld, er býr á Víðivöllum, kvæntur Jensínu Daníelsdóttur, ættaðri af Skógaströnd; 2. Vigfús, póstafgreiðslumaður að Oak Point.

Önnur kona Jóns, Snjólaug Guðmundsdóttir bónda í Fossgerði í Eyðaþinghá og víðar, Ísleifssonar í Rauðholti, Egilssonar; er enn á lífi.

Jón kom til Ameríku 1875, fór fyrst til Ontario, svo eftir stutta dvöl þar til Nýja Íslands með fyrsta hópnum, er þangað fór; var á Gimli rúmt ár, nam svo land við Íslendingafljót og nefndi Víðivelli, og bjó þar til þess hann lézt.

---

**Ólafur Oddsson** í Fagraskógi, fæddur á Kollaleiru í Reyðarfirði 17. ágúst 1848. Foreldrar hans voru Oddur bóndi á Kollaleiru, Bjarnasonar, Konráðssonar, og kona Odds, María Eiríksdóttir.

Bjarni Konráðsson, föðurfaðir Odds, bjó á Kollaleiru, var hreppstjóri Reyðarfjarðarhrepps og þótti í sinni tíð mjög merkur maður. Hann var á lífi 1830. Kona Ólafs Kristbjörg Antóníusdóttir frá Steinaborg á Berufjarðarströnd, Eiríkssonar. Antóníus flutti til Ameríku 1879, nam land í Fljótsbygð og nefndi Þykkvabæ; hann dó 1917, 95 ára gamall. Kona hans, móðir Kristbjargar konu Ólafs, hét Ingveldur dóttir Jóhannesar skálds Árnasonar. Jóhannes var víða kunnur í Múlasýslum, vinsæll og alstað-



Ólafur Oddsson og Kristbjörg Antoníusdóttir.



Antoníus Eiríksson og Ingveldur Jóhannsdóttir.

ar velkominn til dvalár. Hann orti mikið, þó ekki hafi þeim vitanlega, sem ritar, nokkuð af því komið á prent. Kristilegar alvöruvísur kvað hann oft, og líka gamanvísur. Út af óviðeigandi sambúð milli hjóna, sem hann dvaldi hjá, kvað hann þessa vísu:

Friðarins andi hatri hrindi
heimili þessu burtu frá,
hjónanna saman hjörtu bindi,
hvort annars velferð stundi á.
Helgast band geymi hjúskapar
hverju öðru til farsældar.

Jóhannes var um tíma vinnumaður í Kirkjubæ í Hróarstungu, hjá Árna prófasti Þorsteinssyni; var kúahirðir og var úti í fjósi eitt kvöld. Sigfús sonur séra Árna kom að fjósdyrunum og kvað vísu:

Má eg skunda í musteri
majestatis yðar?
Heilir nú í hásæti,
hæstur kúa Domine.

Jóhannes svaraði með vísu:

Mitt í skunda musteri
mun eg leyfa yður,
sanna ef stundið siðprýði,
silkihrunda Domine.

Börn Ólafs og, Kristbjargar: 1. Antonia Ingveldur, kona Eiríks Þorsteinssonar á Þykkvabæ; 2. Jóhanna María, kona Baldvins Halldórssonar, búa í Geysir-bygð; 3. Pálína, 4. Kristján, kvæntur Ingibjörgu Tómasdóttur frá Engimýri; 7. Ólafur, kvæntur Þuríði Jóhannesdóttur Jónassonar; 6. Oddur, kvæntur Lenu Bowman, af enskum ættum; 7. Ólafur, kvæntur Sigríði Sigurgeirsdóttur Einarssonar; 8. Kristbjörg, fósturdóttir, skólakennari í Riverton.

Ólafur flutti frá Karlsstöðum á Berufjarðarströnd til Ameríku 1879, setti heimilisrétt á jörðina Fagraskóg; þar hafði fyrst bygt Jón frá Brenniborg í Skagafirði, sem áður er nefndur, hann flutti til Dakota á útflutningaárunum.

---

**Eiríkur Þorsteinsson** á Þykkvabæ, tengdasonur Ólafs í Fagraskógi er fæddur í Eyjum í Breiðdal í Suður-Múlasýslu 28. maí 1875; flutti til Ameríku 1888.

**Benedikt Kristjánsson** á Finnsstöðum, fæddur í Reykjadal 9. október 1846, flutti til Ameríku 1879. Er tvíkvæntur; sonur hans og fyrri konu hans, Sigurbjörn bóndi að Shoal Lake, Man. Seinni kona, Björg Auðunsdóttir. Börn tveir synir: 1. Friðhólm Valdimar, gekk í herþjónustu; 2. Benedikt Kristján.

Á Finnsstöðum var frumbúi Friðfinnur Jónsson frá Þorvaldsstöðum í Breiðdal í Suður-Múlasýslu; flutti til Ameríku 1876. Frá Nýja Íslandi flutti hann til Argyle. Dó af slysi fyrir mörgum árum. Hann var faðir Páls bónda í Argyle og Jóns tónskálds í Winnipeg.

---

**Páll Jóhannsson**, bóndi á Víkingsstöðum frá 1876 til 1879. Fæddur á Keldunesi í Kelduhverfi 2. nóvember 1851; faðir hans var Jóhann, síðast bóndi að Reistará í Hörgárdal,, Pálssonar bónda í Viðvík í Skagafirði, Jónssonar. Móðir Páls, kona Jóhanns, hét Björg Sveinsdóttir frá Hallbjarnarstöðum, systir Guðnýjar móður Kristjáns skálds Jónssonar.


Páll Jóhannsson.

Páll fluttist fjögra ára gamall með foreldrum sínum að Reystará; þar bjuggu þau til þess 1862, að þau dóu bæði, Jóhann á þrenningar sunnnudag, en kona hans næsta þriðjudag, þann 10., og voru lögð í sömu gröf í Möðruvalla kirkjugarði. Börnin voru sjö og skiftust þau á milli vina og ættingja. Páll fór að Víkingavatni til frænda sinna og var þar 10 ár, frá 1862 til 1872, svo eitt ár á Húsavík hjá Þórði Guðjohnsen, og fór þaðan til Ameríku 1873; sté á land í Quebec 6. október, fór til Toronto og dvaldi þar tvö ár; árið 1875 giftist hann Guðleifu Jónsdóttur frá Reykjavík, og um haustið það ár flutti hann til Nýja Íslands. Hann hjálpaði til að byggja fyrsta bjálkahúsið á Gimli, og var þar eitt ár, en fór svo norður á Sandy Bar og nam land og nefndi Víkingsstaði; þar er ekki búið nú. Þar var hann þrjú ár og flutti suður til Dakota 1879, bjó 9 mílur suðvestur af Pembina í 16 ár, flutti svo vestur í Akra-

sveit og bjó þar 7 ár. Hætti hann svo búskap og flutti til Cavalier og svo til Mountain 1906, og hefir verið þar síðan.

Kona Páls lézt 1888; þeim varð tveggja barna auðið: Jón býr í Saskatoon, Sask., og á fyrir konu Guðrúnu Ólafsdóttur frá Ekkjufellsseli í Fellum í Norður-Múlasýslu. Annað barn Páls var dóttir; hún var fædd 1883 d. 1908.

Páll er vel sjálfmentaður maður og hefir verið vel bygður. Hann hefir gegnt ýmsum opinberum störfum í Norður Dakota. Á yfirstandandi ári hefir hann verið þingmaður fyrir Pembina County á Norður Dakota ríkisþingi. Árið 1911 var hann af ríkisstjóra John Burk sæmdur "colonels"-nafnbót. Hann hefir ávalt sem hetja rutt sér braut gegn um æfina.

---

**Björn Pétursson** á Sandy Bar, fæddur á Eiðum í Suður-Múlasýslu 2. ágúst 1826, dáinn í Winnipeg 25. september 1893. Faðir hans var Pétur prestur á Klippstað í Loðm.-firði og í Berufirði og á Valþjófsstað, f. 1802, d. 1883, Jónsson vefara Þorsteinss. prests á Krossi í Landeyjum. (Sjá hér að framan í ætt Jóns Guttormssonar). Móðir Björns og kona séra Péturs var Anna Björnsdóttir prests á Eiðum og Kirkjubæ, Vigfússonar prests í Garði í Kelduhverfi og Skinnastað, Bjarnarsonar pr. á Grenjaðarstað, Magnússonar, Bjarnarsonar, Pálssonar, Guðbrandssonar biskups, d. 1627. Kona sr. Björns á Eiðum, móðurmóðir Björns Péturssonar, Þórunn dóttir Guðmundar sýslumanns í Krossavík, Péturssonar sýslumanns á Ketilsstöðum, Þorsteinssonar sýslumanns sama staðar, Sigurðarsonar.



Björn Pétursson.

Björn fór í Reykjavíkurskóla og hafði nærri lokið námi þar 1849—1850, þegar skólapiltar gerðu upphlaup á móti skólastjóra Sveinbirni Egilssyni. Hann hætti þá við nám og kvæntist litlu seinna Ólavíu Ólafsdóttur prests á Kolfreyjustað, f. 16. nóvember 1825, d. 6. desember 1884. Börn þeirra, sem komust til fullorðinsára: 1. Anna, kona

Jakobs Jónssonar frá Munkaþverá, búa að Milton, N. D.; 2. Páll, læknir í Huston, Minnesota, d. 1881; 3. Þórunn, kona Stígs Þorvaldssonar að Akra, N. D.; 4. Sigrún, ekkja eftir Lars Hogan, norskan mann, Kristnes, Sask.; 5. Halldóra, kona Páls Bardals Sigurgeirssonar í Winnipeg; 6. Ólafur læknir í Winnipeg, kvæntur Sigríði dóttur Jóns Brandssonar að Garðar, N. Dak. Líka er sonur Björns, Sveinn, býr í Seattle, Wash., kvæntur Kristrúnu Ólafsdóttur prests frá Kolfreyjustað, Indriðasonar.

Björn flutti frá Hallfreðarstöðum í Hróarstungu til Ameríku 1876. Hann nam land á Sandy Bar; á grunninum þar sem hús hans stóð, stendur bjálkahús, sem núverandi bóndi á Sandy Bar, Gestur Guðmundsson, notar fyrir geymsluhús.

Björn hafði ekki gefið bæ sínum neitt íslenzkt nafn, þegar hann fór þaðan; bærinn var, eins og hann er enn, meðan hann var þar, nefndur Sandy Bar, eftir sandrifinu, sem er um það hálfa aðra mílu þar fyrir norðan. Sama var suður með vatninu, bygðin alt suður í Breiðuvík nefnd, og svo bygðin á því svæði með þjóðveginum norður undir Íslendingafljót nefnd sama nafni. Frumnafnið var Sandy Bar, það er bygðin með sínu frumnafni, sem skáldið Guttormur J. Guttormsson innifelur í kvæði sínu "Sandy Bar". (Sjá seinni part 5. erindisins í kvæðinu, þar sem hann segir hvert markmið fyrstu landnámsmannanna var):

Meginbraut að marki ryðja,
Merkta út frá Sandy Bar,
Braut til sigurs rakleitt rétta
Ryðja út frá Sandy Bar.

Skáldið hverfur í huganum aftur í landnámstímann og virðir fyrir sér Sandy Bar bygðina. Hann veit, að þar eru mörg leiði þeirra, sem fyrst settust þar að og dauðinn tók í burtu, þegar þeir voru nýbúnir að búa ofurlítið um sig. Hann sér þau með hugsjón sinni á víð og dreif í Sandy Bar bygðinni. En hvað þeir hétu, sem þar hvíla, er nú gleymt. Sjá upphaf á öðru erindi: "Þögnin felur þeirra heiti.").

Kvæðið Sandy Bar er gimsteinn í íslenzkri skáldskaparfjárhirzlu, sem ekki ætti að glatast.

Björn flutti frá Sandy Bar til Dakota sumarið 1879. Næsta vetur dvaldi hann í Huston í Minnesota hjá Páli lækni syni sínum, fór svo til Íslands vorið 1880, og kom

aftur vestur að áliðnu sumri 1881. Honum til mikils harms frétti hann lát Páls sonar síns vestan um haf, áður en hann lagði af stað að heiman. Eftir að hann kom vestur aftur dvaldi hann lengst af í Dakota, þar til hann kvæntist í annað sinn amerikanskri konu, settist þá að í Winnipeg og starfaði síðustu æfiár sín að Únítara trúboði.

Björn var vel gefinn maður, hár á vöxt og tígulegur á velli, sterkur vel og glíminn eftir því. Hann hafði til æfiloka sterkt hald á því, sem hann lærði í skóla, t. d. latínu, var laginn vel að segja unglingum til við bóknám. Hann var skemtinn í tali og glaðvær, einkum í samkvæmi með kunningjum sínum; þá varð alt, sem dapurt var, að rýma fyrir glaðværðinni. Hann var vinsæll og bar í sér áhuga fyrir velferð þjóðar sinnar. Var á Íslandi alþingismaður fyrir Suður-Múlasýslu og tvisvar endurkosinn.

---

**Guðmundur Jónsson** á Sandy Bar, fæddur í Kelduskógum á Berufjarðarströnd 21. október 1833, dáinn 12.



Gestur Guðmundsson og Kristbjörg Jóelsdóttir og börn þeirra.

september 1909. Foreldrar hans voru Jón Guðmundsson bóndi í Kelduskógum, d. 10. nóvember 1843, og kona hans 1. Guðrún Guðmundsdóttir, prests í Berufirði, Skaptasonar;

kona Guðmundar Ingigerður Einarsdóttir d. 1881. Börn: 1. Guðrúún, gift enskum manni í Toronto; 2. Bergljót, gift enskum manni í Calgary; 3. Guðný Jónína, ekkja eftir Magnús Björnsson bónda í Argyle; 4. Aðalheiður, gift enskum manni vestur við haf; 5. Gestur, fæddur 3. ágúst 1876, býr á föðurleifð sinni á Sandy Bar, kvæntur Kristbjörgu Jóelsdóttur, ættaðri úr Mýrasýslu. Börn þeirrra: 1. Guðmundur, 2. Guðjón, 3. Einar, 4. Gestur 5. Ingigerður, 6. Guðrún Kristbjörg.

Guðmundur flutti frá Kleyfarstekk í Breiðdal til Ameríku 1879; var fyrstu tvö árin á Bjarkarstöðum; þar var frumbyggjari Einar Bjarnason frá Stóra Sandfelli í Skriðdal; hann flutti til Dakota og seinna til Norðvesturlandsins.

Guðmundur settist að á Sandy Bar 1881 og bjó þar til dauðadags. Hann var vel að sér til bókarinnar, var rímmaður, og skrifaði fagra hönd.

---

**Pétur Pálsson,** fæddur á Árnastöðum í Loðmundarfirði 29. Ágúst 1844. Faðir hans var Páll bóndi á Árnastöðum ,Guttormsson bónda í Fljótsdal, Guttormssonar bónda í Sunnudal í Vopnafirði, Guðmundssonar prests í Hofteigi. Móðir Guttorms í Sunnudal, kona séra Guðmundar í. Hofteigi, hét Elísabet, dóttir Jens Víums sýslumanns í Múlaþingi. Kona Guttorms í Sunnudal, móðir Guttorms föðurföður Péturs Pálssonar, hét Guðrún Einarsdóttir, prests á Skinnastað, Jónssonar prests á Skinnastað, Einarssonar prests sama staðar, Nikulássonar. Móðir Péturs Pálssonar, kona Páls á Árnastöðum, hét Anna Jónsdóttir bónda á Hólalandi, Árnasonar á Brennistöðum.

Pétur var þriggja nátta tekinn í fóstur að Klippstað, af séra Jóni Jónssyni og Margrétu Hjörleifsdóttur, og var hann hjá þeim til þess hann var 10 ára, fór þá heim til foreldra sinna, en þótti þá sárt að skilja við fósturforeldra sína. Fór svo 16 ára gamall til Þórðar bónda Jónssonar á Sævarenda og þaðan eftir eitt ár að Úlfsstöðum í sömu sveit til húsfreyju Hildar Eiríksdóttur, og fluttist með henni norður að Garðsvík á Svalbarðsströnd og var þar tvö ár; tók þá að stunda sjóróðra og var mörg ár við hákarlaveiðar á þilskipum úti fyrir Norðurlandi, um tíma formaður á þeim og lét það vel. Árið 1865 kvæntist hann Guðrúnu Jónsdóttur, ættaðri úr Reykjadal; þeim varð fjögra

barna auðið: 1. Kristján, giftur Þorbjörgu Kristjánsdóttur Kjernested, búa í Selkirk; Björg, látin; 3. Guðmundur, giftur Elísabetu Alex, enskri; 4. Páll, giftur Helgu Halldórsdóttur Bardal, búa í Winnipeg.

Pétur flutti austur í Loðmundarfjörð skömmu eftir 1870, var á Brimnesi í Seyðisfirði síðasta ár sitt á Íslandi, og flutti til Vesturheims 1876; nam hann land í grend við Sandy Bar og nefndi Jaðar; þar er ekki búið nú. 1. apríl 1878 misti hann konu sína; giftist í annað sinn 1882, Guðlaugu Magnúsdóttur, ættaðri úr Fljótshlíð í Rangárvalla-



Pétur Pálsson og tveir sonardóttursynir hans.

sýslu. Hún dó 8. ágúst 1918. Börn þeirra: Óskar húsasmiður í Winnipeg og Petrína, gift enskum manni, og búa þau suður af Winnipeg.

Pétur flutti frá Jaðri suður að Gimli sumarið 1882, keypti af Friðjóni Friðrikssyni íbúðarhús hans og misti það í bruna eftir nokkur ár. Á meðan hann var á Gimli hafði hann póstafgreiðslu og verzlun um tíma. Hann flutti til Argyle 1892 og bjó þar í 19 ár. Fór svo til Selkirk 1911 og þaðan eftir nokkur ár til dóttur sinnar í Argyle. Er nú ýmist hjá börnum sínum eða á Betel heimilinu að

Gimli. Er ern og hress í anda, er kært að tala um æfintýri í liðinni tíð og bíður með bjartsýni ókominnar tíðar.

---

**Jón Björnsson** á Grund, fæddur á Borg í Skriðdal 24. desember 1837. Faðir hans var Björn Ásmundsson bóndi á Borg og víðar. En móðir Jóns, kona Björns, hét Margrét Eyjólfsdóttir, bónda á Ásrúnarstöðum í Breiðdal, Þórðarsonar á Finnsstöðum í Eiðaþinghá. Kona Jóns, Margrét Guðmundsdóttir, d. 1914, systir Snjólaugar seinni konu Jóns sál. Guttormssonar á Víðivöllum (sjá áður). Börn á lífi: 1. Oddný Jakobína; 2. Guðrún, Gift. S. Samson, lögregluþjóni í Winnipeg; 3. Sigurbjörg, gift Gísla Einarssyni á Hólum (sjá áður); 4. Guðmundur Magnús Kristinn.

Jón flutti til Amríku 1876, settist að á Sandy Bar í grend við bæ Björns Péturssonar, og var hann í bjálkakofa, sem Indíánar höfðu bygt, í 10 mánuði. Sambýlismaður hans var Pétur Árnason, seinna í Árskógi (getið áður). Kofinn var 12 fet á lengd og 10 á breidd; níu manns voru þar yfir veturinn. Þar misti Jón tvö börn úr bólunni, og hvíla þau skamt frá íbúðarhúsi Gests Guðmundssonar.

Jón nam land við vatnið og nefndi Grund; bjó þar til þess kona hans lézt og hefir síðan haft heimili hjá börnum sínum.

Eins og fleiri gera, geymir Jón ýmislegt í minni sínu um þrautir þær, sem hann varð að þola fyrsta ár sitt í Nýja Íslandi. Í ofanálag að börn hans dóu, fékk hann mjög slæmt handarmein, sem hann átti í meiripart vetrarins (bóluvetrarins). Fór hann þá suður til Jóns læknis Jónassonar á Skíðastöðum í Árnesbygð, og var þar þrjár vikur, og tókst Jóni á þeim tíma að lækna hendina, og var þó kominn dauði í handarbakið. Enga peninga kvaðst hann hafa haft til að borga þessum velgjörðamanni sínum. Spurði hvað hann skuldaði honum, og hefði hann svarað: "Þú hefir ekki peninga til að borga mér nú. Mér er það borgun í bráðina, að þú getir hjálpað þér og fjölskyldu þinni. En ef kringumstæður þínar lagast, þá borgaðu mér þrjá dollara." Og þá segist hann hafa getað borgað seinna. En kvaðst samt hafa álitið, að Jón læknir hefði átt þrefalt meira fyrir hjálpina, en ekki var um að gera hann tæki við meiru.

Auk þess sem Jón minnist þessa velgjörðamanns síns,

Jóns Jónassonar, minnist hann þess, hvað samkomulag var gott á milli frumbyggjanna í grend við hann. Hann fer um það þessum orðum. Menn unnu í einingu andans sameiginlega og greiddu úr vandræðum hverjir með öðrum. Hinn rúmlega áttræði öldungur minnist jafnt meðlætis sem mótlætis frá landnámsárunum. Bréf hans til þess, sem þetta ritar, sem æfiágrip hans er tekið úr, ber vott um þakklæti hans til guðs og manna fyrir veittar velgjörðir frá liðnum tímum.

---

**Jón Hildibrandsson** á Kolsstöðum. Fæddur á Geirastöðum í Hróarstungu laugardaginn fyrir hvítasunnu, 30. maí 1846. Faðir hans var Hildibrandur bóndi í Skógar-



Jón Hildibrandsson.



Guðlaug Einarsdóttir.

gerði í Fellum, Hildibrandsson bónda á Ormsstöðum í Skógum og Hofi í Fellum og síðast í Skógargerði, Einarssonar. Móðir hans, kona Einars, var Guðrún Árnadóttir, bónda í Hjarðarhaga, Guttormssonar bónda í Merki á Jökuldal, Jónssonar stúdents á Skjöldólfsstöðum, Gunnlaugssonar prests í Möðrudal. Móðir Hildibrandar, föður Jóns, kona Hildibrandar eldra, var Guðrún Einarsdóttir bónda og hreppstjóra á Setbergi í Fellum, Kristjánssonar bónda á Krossi í sömu sveit. Móðir Jóns Hildibrandssonar, kona Hildibrandar í Skógargerði, var Jóhanna Jónsdóttir, bónda á Geirastöðum Sigfússonar, bónda á Galtastöðum út, Sigfússonar bónda á Litla Steinsvaði og Kleppjárnsstöðum, stúdents og lögsögumanns Jónssonar, stúdents á Skjöld-

ólfsstöðum. Móðir Jóns á Geirastöðum, kona Sigfúsar á Galtastöðum, var Helga Jónsdóttir bónda á Melum í Fljótsdal. En kona Jóns á Geirastöðum, móður-móðir Jóns Hildibrandssonar, var Ingibjörg Jónsdóttir bónda á Sandbrekku Magnússonar. Kona hans hét Þuríður og er fjölmenn ætt komin frá þeim á Austfjörðum.

Jón fluttist ársgamall að Skógargerði með foreldrum sínum og var hjá þeim til þess hann fór til Ameríku 1876. Hann var fyrst fjögur ár í Nýja Íslandi, í samvinnu með tengdaföður sínum og til heimilis hjá honum á Reykjum í Breiðuvíkinni. Þar heita nú Keldhólar og er eign séra Rúnólfs Marteinssonar. Hann hefir þar sumarheimili.

Jón kvæntist 24. desember 1878, Guðlaugu Einarsdóttur bónda frá Egilsseli í Fellum Guðmundssonar, og Jarðþrúðar Guðmundsdóttur konu hans, bróðurdóttur séra Sigfúsar Finnssonar í Hofteigi. Hún lézt 9. ágúst 1907. Af sex börnum þeirrra lifa tveir synir: Hildibrandur, fæddur 15. jan. 1885, býr með föður sínum, var í herþjónustu í fyrra við góðan orðstýr, og Sigfús, f. 20 júlí 1891, heima.

Jón flutti til Winnipeg sumarið 1880 og var þar 7 ár og fjóra mánuði. Vann fyrst á C.P.R. járnbrautinni rúma fimm mánuði og svo við smíðar eftir það mestallan tímann, sem hann var í bænum. Hann hjálpaði Helga heitnum Jónssyni til að byggja Framfarafélagshúsið sumarið 1881, og fimm önnur hús bygði hann með Helga. Hann bjó á Young stræti, keypti þar bæjarlóð og bygði sér þar hús. Til Nýja Íslands flutti hann aftur 1887 og var kominn þangað 24. desember. Hann nam land þrjár og hálfa mílu fyrir norðan Hnausa P. O., og nefndi Kolsstaði.

Jón hefir mikið unnið við smíðar í bygð sinni. Í safnaðarmálum hefir hann tekið góðan þátt. Var skrifari Breiðuvíkur safnaðar frá því hann var myndaður, til þess á ársfundi 1916, að hann sagði af sér. Hann hefir sterkt minni og kært er honum í tali við hina eldri menn að hverfa til ættjarðarinnar og rifja upp æskuminningar. Hann varð fyrir því slysi 23. desember síðastl., að hús þeirra feðganna brann; gat ekki heitið að nokkru, sem í því var, yrði bjargað. Sárast þótti Jóni að missa alt íslenzka bókasafnið sitt, sem hann og synir hans lásu í altént þegar tími gafst til þess.

Jón er Bjartsýnn maður og hefir ekki látið hugfallast í öldugangi lífsins.

**Guðmundur Marteinsson** í Garði, fæddur á Ormsstöðum Breiðdal 5. Nóvember 1841. Foreldrar hans voru Marteinn Jónsson, bóndi á Skriðustekk í Breiðdal, og kona hans Sigríður Einarsdóttir, bónda á Stórasteinsvaði Gíslasonar, og konu hans Guðlaugar Eiríksdóttur bónda á Stórasteinsvaði Hallssonar, af Njarðvíkurætt.

Guðmundur er þríkvæntur; fyrsta kona, Jóhanna Guðmundsdóttir frá Tóvaseli í Breiðdal, áttu eina dóttur, Jóhönnu að nafni, er komst til fullorðinsára og er nú látin fyrir mörgum árum. Önnur kona, Kristín Gunnlaugsdóttir frá Flögu í Breiðdal; voru börn þeirra tíu, þrjú dóu ung, en á lífi eru: 1. Marteinn, járnbrautarstjóri í Sperling, Man.; Helga, kona Bjarna Marteinssonar á Hofi í Breiðuvík; 3. Gunnlaugur, bóndi á Laugalandi í Breiðuvík; 4. Einar, bóndi í Litlagarði í Breiðuvík; 5. Antoníus, bóndi í Árnesbygð; 7. Kristbjörg, gift enskum manni í Winnipeg. — Þriðja kona Guðmundar, Ingibjörg Helgadóttir, ættuð úr Skagafirði, eiga tvo syni, Jón Edwin og Helgi Daníel. Guðmundur bjó á Flögu í Breiðdal, flutti þaðan til Ameríku 1878, fór strax til Nýja Íslands og settist að í Garði; þar hafði áður búið Jón Bardal, kom að heiman 1876, varð fyrir járnbrautarlest í Winnipeg 1881 og beið bana af; kona hans hét Hildur Friðriksdóttir, náskyld Magnúsi Jónassyni í Víðirbygð.

Guðmundur ræktaði hveitikorn á fyrri árum, nóg í brauð handa sér, þreskti það með höndum sínum og malaði það í kvörnum, sem hann bjó sér til sjálfur. Hann hefir í fjögur ár verið blindur. Yngstu synir hans (synir þriðju konu hans) eru með móður sinni ellistoð hans.

---

**Júlíus Jóhannsson** í Grenivík, fæddur í Grenivík í Höfðahverfi við Eyjafjörð 9. júlí 1875. Foreldrar hans voru Jóhann Sigurðsson bóndi í Grenivök og kona hans Jóhanna Jónatansdóttir.

Júlíus fluttist til Ameríku með foreldrum sínum 1878, var hjá þeim á Gimli og í Selkirk og Winnipeg til þess hann var 13 ára; vann í ýmsum plássum eftir það, var formaður um tíma á gufubát, sem gekk á milli Íslendingafljóts og Selkirk. Hann kvæntist 9. júní 1898 Margrétu Eiríksdóttur bónda á Odda Eymundssonar; hún dó 16. október 1903; þeirra son Jóhann Eiríkur, fóstursonur móðurforeldra sinna. Önnur kona Júlíusar, gift honum 4. ág. 1917,

Guðrún Björg Pátursdóttir, bónda í Árnesbygð, Eyjólfssonar frá Fossgerði í Eiðaþinghá og konu hans Sigurbjargar Magnúsdóttur, bónda á Álftavík, Sæbjörnssonar.



**Júlíus Jóhannsson og Margrét Eiríksdóttir.**

Júlíus nam land og kallaði bæ sinn eftir fæðingarstað sínum á Íslandi.

---

Í lok landnámssögunnar skal þess getið, að nærri allir núverandi bændur í Fljótsbygð, átt er við þá, sem getið er hér að framan, eiga, auk heimilisréttar-jarða, sinna fleiri jarðir, sem þeir hafa keypt, eiga þetta þrjár í það heila og sumir yfir þá tölu, og flestir synir hinna eldri bænda hafa tekið heimilisréttarjarðir..

Aðal kornrækt bygðarinnar er hafrar og í meðalári gefur ekran af sér að meðaltali 50 mælira (bush.) og stundum meira. Fer mikið eftir því, hvað lengi er búið að nota akrana.

Mikið hafa bændur unnið að því að þurka upp land; hafa breytt blautu mýrlendi í þurt slæjuland, sem framleiðir í góðu ári gnægt af heyi.

---

## SÖGULEGUR EFTIRMÁLI.

Vorið 1881 bygðu þeir Sigtryggur Jónasson og Friðjón og Árni Friðrikssynir sígunarverksmiðju við Íslendingafljót.

"Leifur" segir frá því ( 31. tbl. 7. desember 1883, að póstsleði eigi að ganga á milli Selkirk og Íslendingafljóts.

Í 24. tbl. annars árgangs, 17. október, ritar séra Jón Bjarnason um Nýja Ísland. Hann er þá fyrir skömmu kominn frá Íslandi og tekur sér ferð til nýlendunnar. Fer frá Winnipeg laugardaginn 20. september 1884. Fór með gufubátnum Victoria frá Selkirk norður að Fljóti, og tók sú ferð hér um bil sólarhring. Hann hafði guðsþjónustusamkomu fimtudaginn 25. september í inndælu veðri undir berum himni, undir skógarrunna skamt frá Möðruvöllum, og voru þar flestir Fljótsbygðarbúar saman komnir. Rætt var þar talsvert um kirkjumál bygðarmanna og nefnd kosin til að gangast fyrir myndun reglulegs safnaðar. Hugsanin var sú, að reisa við Bræðrasöfnuð, sem hafði að mun dofnað yfir í rúm þrjú ár, síðan séra Halldór Briem fór úr Nýja Íslandi. Séra Jón getur þess, að sér hafi þótt miklar framfrarir hafa gjörst við Fljótið í fjögur og hálft ár síðan hann fór heim til Íslands vorið 1880. Búið var að byggja sögunarmylnu og langt komið að smíða skip.

Í 25. tbl. "Leifs", 2. árg., er bréf úr Fljótsbygð, dags. 30. september 1884. Þar er þess getið, að tíðin hafi verið votviðrasöm framan af mánuðinum, en komið þerrir og hagstæð tíð seinni hlutann.—Fiskafli er sagt að hafi verið með rýrara móti þann tíma árs.

Sagt er, að þá sé sögunarmylna þeirrra Jonassons, Friðrikssons and Walkley búin að afljúka sumarstarfi sínu; hafði sagað í borðvið 21,000 bjálka; þar af hafði félagið látið vinna að veturinn áður 18,000; að því unnu sttöðugt frá 20 til 30 manns og frá 5 til 7 pör af hestum og uxum. Bændur hjuggu og fluttu til mylnunnar 3,000 bjálka, sem félagið sagaði borðvið úr og tók helming viðarins í sögunarlaun. Kaupgjalda verkamanna félagsins var um vetrartímann 13 til 15 dollarar um mánuðinn, en um sumartímann 20 dollarar og fæði. Þeir, sem fæddu sig sjálfir, fengu 13 dollara í fæðispeninga yfir mánuðinn. —Að skipi því, sem félagið hafði í smíðum, hafa síðan þá

næstliðinn febrúar, segir bréfið, unnið 6 til 10 manns. Kaup þeirra var um daginn $1.20 til $1.25.

Getið er þess, að það séu að koma frá stjórninni eignarréttarbréf fyrir löndum manna, en þó séu mörg ókomin, enda hafi það ekki verið svo útbúið af hálfu agentsins, sem var þar á ferð þá næstliðið haust, að allir gætu fengið bréfin sér að kostnaðarlausu, og urðu því sumir út undan að fá þau, en þótti ekki gott að segja upp verkum sínum til þess að fara til Winnipeg og fá þau þar.

Sagt er, að þá sé í ráði að nokkrir menn, sem ekki höfðu tekið bréf fyrir löndum sínum, flytji norður með vatninu, nálægt því þrjár mílur norður fyrir fljótsósinn; þar sé óbygt, en látið vel af landkostum.

Sagt er að Guðmundur Bergþórsson járnsmiður, sem hafi komið af Sauðárkróki á Íslandi þá um sumarið, hafi í hyggju að stofnsetja við Fljótið niðursuðu á fiski það sama haust. Hann hafi þegar útvegað sér nauðsynlegustu áhöld til að búa til ílátin og ætli að setjast að við Sandvík (Sandy Bar).

Látið er vel af kartöflu uppskeru það haust og flestir þá búnir að taka þær upp.

Úr Fljótsbygð er skrifað 4. júlí 1885. Bréfið er í 3. árg. "Leifs", 9. tbl. Þar er þess getið, að bygðin sé að færast upp með Fljótinu. Þrír menn þá fyrir stuttu fluttir upp fyrir gömlu bygðina, tveir þeirrra nokkrar mílur upp fyrir Fögruvelli; og þessir menn eru ánægðir með lönd sín, segja þar vera ágætt gras og góðan jarðveg, og mikill fiskafli í Fljótinu það vor. Bréfshöfundur segir, að frá 20 til 30 búendur komist fyrir á bilinu frá gömlu bygðinni upp til Fögruvalla, og land þar fyrir ofan talið ágætt.

Höfundur segir það líti ekki vel út með grasvöxt og sáðverk sökum þurka og hita, sem hafi verið því nær á hverjum degi, um tíma 80 til 100 gr. í skugga.

Höfundur segir, að bjarndýr hafi gert með meira móti vart við sig það sumar og sæki þau að fiskihjöllum bænda, að fá sér þar bita; annað mein geri þau ekki. Fimm af þeim höfðu verið skotin um sumarið austur í Breiðuvíkinni.

Á Sandy Bar og í Breiðuvíkinni hafði kalk verið brent það vor og hepnast allvel og ýmsir þá að byrja að leggja rækt við að kalka hús sín.

Í 47. tbl. "Leifs", 3. árg., er bréf úr Fljótsbygð, dagsett 14. apríl 1886.

Tíðin góð, sunnan andvari og þíða dag og nótt, jörð alauð og orðin plógtæk.

Meðan snjórinn var, notuðu bændur sleðafærið til að draga bjálka að sögunarmylnunni; hafa þeir felt þrjú til fjögur þúsund "tré", er þeir fá söguð upp á helming af því sem úr þeim kemur.

Efnahagur manna heldur góður og vellíðan yfir höfuð. Heilsufar alment gott, skepnuhöld ágæt; sátt og samlyndi manna á milli og engin hreyfing eða óróleiki heyrist; jarðrækt lítil og safnaðarlíf dauft.

Barnaskóli var haldinn við Íslendingafljót að eins mánaðartíma; kennarinn var Jón Sigurðsson (þá, þegar bréfið var ritað, til heimilis í Selkirk); lipur maður og vel að sér.

Hinn 10. apríl segir höf. að hlutavelta hafi verið haldin og leikinn sjónleikur á Lundi við Fljótið, sem nokkrar konur gengust fyrir. Og ætli þær að verja ágóðanum, sem varð rúmlega 20 dollarar, í safnaðar þarfir, en á hvern hátt, var þá óráðið.

Hið 6. ársþing kirkjufélagsins var haldið við Íslendingafljót sumarið 1890; stóð yfir frá föstudginum 27. júní til fimtudags 3. júlí. Þingskrifari var annar þáverandi ritstjóri "Lögbergs", Jón Ólafsson frá Kolfreyjustað; kom til Winnipeg frá Íslandi á sunnudaginn 20. apríl það ár. Hann ritaði ferðasögu sína í "Lögb." frá Winnipeg til Íslendingafljóts. Honum þótti fagurt á land að sjá af vatninu úti fyrir Gimli. Hann kom þar á land, þótti heldur litlar verklegar framkvæmdir þar. En glaðlega og ánægjulega sagði hann sér hefði litist á fólkið á Gimli; það var íslenzkulegra í háttum og búningi heldur en annarsstaðar hérlendis, sem hann hafði séð. Við Árnes segir Jón að lítil sem engin viðstaða hafi orðið. Hann minnist ofurlítið á ána Drunken River, sem á íslenzku mundi nefnast Drukkin-elfi eða Drukkins-á. Jón segir áin hafi fengið nafn sitt af því, að fyrir sunnan hana hafi áður en íslenzkt landnám hófst í Nýja Íslandi mátt selja Rauðskinnum vín, en ekki fyrir norðan hana, og svo þegar hann (Rauðskinninn) eftir að hafa drukkið sig fullan sunnan við ána og fallið í rotsefn, raknaði við, þá svalaði hann sér í ánni, og svo var áin kölluð Drukkins-á. Stundu fyrir miðjan aftan komu kirkju-

þingsmenn að Sandy Bar, og voru þaðan fluttir á tveimur stórum bátum upp Íslendingafljót og upp að Lundi.

Næsta ár, 1920, verða 30 ár liðin síðan kirkjuþingið var haldið við Íslendingafljót, og ætti það vel við, að í ofanálag á framfarirnar, sem Fljótsbygðin hefir tekið í þessi 30 ár, að áður en langt um liði að annað kirkjuþing yrði haldið þar.

Árið 1891 var skólahús bygt að austanverðu við fljótið (skólahús Lundi-skólahéraðs); á þessu ári á að byggja skólahús að vestan megin,en hætta við það gamla að austan.

Á fyrstu landnámstíð var komið á barnaskóla á Lundi og þeim haldið við eftir því sem kenslukraftar og kringumstæður leyfðu þar til búið var að stofna og löggilda skólahéruð í Nýja Íslandi. Til eru menn á sextugsaldri, sem gengu á barnaskóla í Lundi til Sigtryggs Jónassonar, Halldórs Briem og Torfhildar Holm.

Íslenzkir kennarar að Lundi hafa verið þessir: Guðrún, Salína og Hildur Sigfúsdætur Péturssonar, Björg Jónsdóttir Þorkelssonar frá Otto., Man., Jón skáld Runólfsson, Dr. Gísli J. Gíslason, nú í Grand Forks, N. D.; Jakobína Sigurbjörnsdóttir skálds Jóhannssonar frá Argyle, Man.; Rósa Pétursdóttir Christophersonar frá Argyle, Estella Thompson, íslenzk í móðurtt; Jónassína Jónasdóttir Stefánssonar frá Gimli, Sveinfríður Gísladóttir frá Lóni (nú kona séra Karls J. Olsons), Ingibjörg Björnsdóttir, bróðurdóttir Stefáns Björnssonar í Selkirk; Hildur J. Johnson frá Manitobavatns-bygð; Valgerður Jónasson frá Argyle, Berta Johnson frá Lundar, Kristín Lilja Kristjánsson og Kristbjörg Oddson frá Fagraskógi.

Árið 1905 var járnbrautin komin til Gimli og þóktist þá C. P. R. félagið víst vera búið að gera nógu vel, þó það færi ekki lengra norður með járnbraut. En samt fór það svo, að járnbraut var fullger til Íslendingafljóts 2. nóvember 1914. Þá kom fyrsta fólksflutningslest til Riverton, og þann 9. sama mánaðar var haldin að Icelandic River sigurhátíð, sem þýddi það, að sigurinn var fenginn í því að fá brautina, og var það að þakka nokkrum ötulum starfsmönnum í bygðinni, að járnbrautin var fengin; eftir marg-ítrekaðar tilraunir þeirra við járnbrautarfélagið að fá brautina framlengda, tókst þeim það um síðir, til ómetanlegs gróða fyrir bygðina.

Riverton bygðist fyrst austan megin við fljótið, en vestan við það síðan járnbrautin kom. Um það 15 ekrur hefir Jóhann Briem af landi sínu lagt til bæjarstæðisins, og selt þær kaupmönnum og ýmsum bæjarbúum.

Svo telst til, að fólkstala innan við Riverton bæjarlínuna muni vera um 200.

Bærinn fékk banka næstliðinn vetur.

Þar með er þessum eftirmála lokið og Fljótsbygðin kvödd á pappírnum í þetta sinn.

---

**Guðmundur Guðmundsson Norðmann.** Hann er fæddur á Sigurðarstöðum á Melrakkasléttu í Þingeyjarsýslu 1. október 1847. Faðir hans var Guðmundur Gottskálksson,



Guðmundur Norðman og Guðbjörg Þorsteinsdóttir.

bróðir Erlendar Gottskálkssonar í Garði í Kelduhverfi og þeirra systkina. Guðmundur var tvígiftur; fyrri kona hans hét Guðrún; varð þriggja barna auðið með henni, er hétu: Árni, Guðrún og Guðbjörg, og var hún móðir Guðmundar Magnússonar (Jóns Trausta söguskálds). Seinni kona Guðmundar, móðir Guðmundar Norðmanns, hét Guðrún Skúladóttir; var þrígift og 17 barna móðir. Synir

hennar og Árna Halldórssonar, annars manns hennar, eru Skúli og Halldór, sem seinna verður getið. Þriðji maður Guðrúnar hét Magnús Rafnsson; hann og Árni, annar maður hennar, voru systkinasynir.

Guðmundur Norðmann var á fyrsta ári, þegar faðir hans dó; hann ólst upp á Sigurðarstöðum hjá móður sinni og stjúpum til þess hann var á tvítugasta ári. Fór hann þá að Grjótnesi til heiðurshjónanna Björns Jónssonar og Vilborgar Gunnarsdóttur, systur séra Sigurðar á Hallormsstað. Á Grjótnesi var Guðmundur að mestu leyti til 1874, að hann fór til Ameríku. Kom til Quebec 23. september, fór þaðan til Kinmount og vann þar um tíma járnbrautarvinnu með mörgum löndum sínum, fyrir einn dollar á dag, án fæðis. Um veturinn fór hann þaðan, og með honum Skafti Arason og Jónas Hall, gangandi áleiðis til Lindsay; kona Jónasar var þar; þeir báru pjönkur sínar, vegalengdin var nær 60 mílur. Þreyttir af gangi, að kvöldi dagsins, er þeir lögðu af stað, báðu þeir gistingar í tveim stöðum, en var úthýst. Næsta dag keyptu þeir sér flutning til Lindsay. Skafti og Guðmundur fóru í mánaðarvist til bónda skamt frá Lindsay; kaup var 5 dollarar um mánuðinn að honum liðnum vildu bændur ráða þá til árs, þóttu þeir duglegir, en buðu svo lítið kaup, að ekki var takandi.

Af því Jóhannes Arngrímsson hafði lýst svo vel landkostum í Nýja Skotlandi og hlunnindum, sem þeim væru veitt, er þangað flyttu, fóru nokkrar íslenzkar fjölskyldur þangað vorið 1875. Guðmundur var einn í þeim hópi. Þegar þangað var komið, fékk hann ekki vinnu, leiddist það, svo hannog Magnús Jónsson skipstjóri frá Akureyri fóru austur að sjó og unnu þar um tíma að skipasmíði. Að því loknu fór Guðmundur til baka yfir að Mooselandshálsum. Þá átti að fara að byrja að höggva braut í gegn um nýlendusvæðið, og áttu Íslendingar að gera það. Verkstjórinn var enskur. Hann bað Guðmund að færa í bók nöfn allra verkamanna og hafa á hendi reikning yfir vinnutíma þeirra, og lét hann sofa hjá sér í tjaldi sínu. Kaupið var dollar á dag og þar af tókust fæðislaun. En kvalafull þótti verkamönnnum veran þarna. Þeir urðu horaðir og bláir og bólgnir af flugnabiti. Að lokinni vegagjörðinni fór Guðmundur í vist til bónda og vann að heyvinnu með öðrum kaupamanni enskum. Sá leit niður á Íslendinginn, kallaði hann Lapplending og öðrum fyrirlitningarnöfnum;

þó fór svo, að Guðmundur gat dregið úr hroka hans, áður en þeir skildu.

Truro er bær nefndur, þangað fór Guðmundur og vann þar í viku að skurðargreftri öllum var sett fyrir að grafa skurð 20 feta langan, 2 fet á breidd og 5 á dýpt. Kaup var einn dollar á dag, án fæðis. Að þessu starfi loknu keypti Guðmundur sér ögn af verkfærum til að gera við stundaklukkur, og fór víða um bygðina og hreinsaði klukkur, en græddi lítið á því. Þar sem hann var nótt, lét hann vinnuna og næturgreiðann standast á.

Um vorið 1876 fór Guðmundur til Lockport og vann þar um tíma, svo seinni-part sumarsins til Winnipeg; kom þar um sama leyti og vesturfarar komu að heiman; fór svo þaðan til Nýja Íslands og settist að hjá Skúla bróður sínum og hélt til þar að mestu leyti árlangt. Það haust, 1876, var byrjað á vegagjörðinni gegn um Nýja Ísland, og fékk Beatty, yfir-verkstjórinn, Guðmund til að útvega verkamenn, bóka nöfnin og halda reikninga yfir vinnutíma og túlka lítilsháttar fyrir sig.

Við brautina vann Guðmundur til þess að hætt var vinnunni, seinni part vetrar, þegar mest reið á að koma veginum í gegn norður að Fljóti, því það var ófarandi eftir vatninu fyrir snjó og hörkuveðrum.

Eftir beiðni Jóns Taylors og Sigtryggs Jónassonar tók Guðmundur að sér að ljúka við vegalagninguna. Það voru 7 mílur, sem eftir voru. Hann tók þær að sér upp á samningsvinnu (accord) fyrir 40 dolllara á míluna, og fékk sömu mennina, sem áður höfðu unnið með hónum.

Um sumarið 1877 giftist Guðmundur Guðrúnu Kristjánsdóttur, ættaðri úr Svínadal í Húnavatnssýslu, og flutti þá á land, sem hann nam upp með Víðir-ánni og kallaði Flæðivelli; þar bjó hann í þrjú ár, og flutti þá að Grímsstöðum, skamt fyrir sunnnan Gimli og bjó þar síðustu árin, sem hann var í Nýja Íslandi..

Til Argyle flutti Guðmundur í marzmánuði 1881, í samferð með Skúla bráður sínum, Skapta Arasyni og Sigurði Kristóferssyni, og einum enn. Uxar voru ökudýrin og tjaldað yfir sleðana. 19 daga voru þeir á leiðinni, og byrjað var, þegar komið var á löndin, að koma upp bjálkakofa og grafa brunnholur. Kona Guðmundar ~~og~~ börn þeirra tvö urðu eftir í Nýja Íslandi, og sátti hann þau í maímánuði um vorið; fóru þau á gufubát vestur eftir Assiniboine-

ánni, eins lengi og það var ekki út frá réttri leið. Svo þegar að því kom að fara eftir landveginum, urðu hjónin að ganga það sem eftif var af leiðinni, um 20 mílur, og bera börnin, ýmist á bakinu eða á brjósti. Tvo uxa og tvær kýr átti Guðmundur, þegar hann var kominn til Argyle, og 10 dollara í peningum. En aðra kúna varð hann að selja um haustið, til þess að geta keypt hveitimjöl og kartöflur, sem hvorutveggja var mjög dýrt. Fyrsta veturinn framfærði hann sig og sína með því að smíða axarsköft, sem hann sendi til ýmsra bæja í langri fjarlægð, og fékk 30 cent fyrir skaftið. Líka gerði hann nokkra uxa-kraga og sleða, til að hjálpa sér með.

18. apríl 1887 dó kona Guðmundar frá fimm börnum. Það elzta var stjúpdóttir hans, Sigurbjörg, 11 ára, Guðmundur Kristján 7 ára, Guðný Ingibjörg á 5. ári, Kristján á 3. og Konráð á 2.

Um haustið það ár, 1887, giftist Guðmundur í annað sinn, Guðbjörgu Þorsteinsdóttur, ættaðri úr Norður-Múlasýslu.

Árið 1914 hætti hann búskap og fékk sonum sínum til eignar og umráða lönd og lausafé. Aldurhnignu hjónin lifa rólegu lífi mitt á milli sona sinna.

---

**Skúli og Halldór Árnasynir,** hálfbræður Guðmundar Norðmanns. Þeir eru tvíburar, fæddir á Sigurðarstöðum á Sléttu 3. október 1851. Foreldrar þeirra voru Árni Halldórsson og kona hans, Guðný Skúladóttir. Halldór faðir Árna vor sonur Ingimundar bónda á Harðbak á Sléttu. Hann druknaði í svo kallaðri Hraunhöfn, þegar hann var að vitja um selanet. Halldór Ingimundarson bjó á Brekku í Núpasveit. Hann fékk fótarmein, þegar hann var miðaldra, fór til að fá bót við því til Kaupmannahafnar og þar var sagaður af honum fóturinn án þess hann væri svæfður eins og nú tíðkast. Gekk eftir það á tréfæti.

Skúli og Halldór voru fjögra ára gamlir, þegar faðir þeirra dó, 37 ára gamall. Þeir ólust báðir upp á Sigurðarstöðum hjá móður sinni og stjúpa þar til þeir voru 17 ára gamlir. Þá fór Skúli að Leirhöfn á Sléttu, til Sigurðar Rafnssonar, sem þar bjó og var sæmdarmaður. Þar var hann þrjú ár og fór svo heim aftur og voru þeir bræðurnir á Sigurðarstöðum þar til þeir fluttu til Vesturheims 1873. Þeir fóru til Ontario og dvöldu um tíma í bæjunum Parry-

sound og Collingwood. Fyrsta vinna, sem þeir fengu í Ontario, var ásamt fjórum eða fimm löndum sínum að taka kartöflur upp úr garði, sem numdi fimm ekrum að stærð, fyrir 2 cent á mælirinn (bushel). Svo unnu þeir ekki við það nema dag, sáu þeir höfðu ekkert upp úr því. Síðan voru þeir tæpan mánuð við skógarhögg, fyrir 15 doll. um mánuðinn. Í Collingwood unnu þeir í vörugeymsluhúsi við að hlaða upp salttunnum, um það þrjár mannhæðir, og var borgað 20 cent á kl.tímann. Líka unnu þeir



Skúli Árnason og Guðrún Hafliðadóttir.

við að afferma kornvöruskip, mokuðu korninu upp í lyftivél, sem flutti það upp í geymsluhúsið.

Það mun hafa verið nálægt veturnóttum, sem bræðurnir fóru til Milwaukee í Wisconsin og fengu þar góðar viðtökur hjá löndum sínum. Fljótt fóru þeir að horfa sér eftir vinnu. Skúli hitti bónda utan af landi, sem var að selja mjólk í bæinn, réðst í vist hjá honum upp á 12 doll. um mánuðinn. En að honum liðnum sagðist bóndi ekki geta borgað nema 7 doll. um mánuðinn. Skúli gekk að því. Svo þegar sá mánuður var liðinn, sagði bóndi að í Milwaukee væri fjöldi manna, sem enga atvinnu hefðu og byðu sig í vinnu að eins fyrir fæði sitt, og spurði Skúla,

hvort hann vildi vinna hjá sér þriðja mánuðinn sem matvinnungur. Það kvaðst Skúli ekki nenna að gera.. Kvaðst þá bóndi skyldi borga 5 doll. og samdist það þá með þeim.

Bóndi hafði annan vinnumann, sem átti að vera að nokkru leyti yfir Skúla. Sá var sérhlífinn, lét Skúla hafa verstu vinnuna og vann stundum ekkert. Þegar þriðji mánuðurinn var liðinn, sagðist Skúli fara, af því sér líkaði svo illa við þennnan mann. Bóndi sagðist skyldi laga þetta og gerði það með því að reka manninn og láta Skúla taka við hans verki og hækka kaupið við hann úr 5 doll. upp í 8 og tók svo nýjan mann í Skúla pláss.

Þegar Skúli hafði verið fjóra mánuði hjá bónda þessum, fékk hann bréf frá Halldóri bróður sínum, sem þá var búinn að vera mánuð í vist hjá bónda, er galt honum 10 doll. í mánaðarkaup. Halldór sagði, að þeir gætu fengið ársvist hver nálægt öðrum, fyrir 120 dala laun, og væri það mikils virði fyrir þá, að geta lært bændavinnu, þó kaupið væri ekki hærra. Skúli brá við fljótt og færði sig í bygðina, sem Halldór var í, og þar voru bræðurnir í ársvistum hjá sömu bændunum í tvö ár; höfðu 120 dali í laun fyrra árið, en 180 það seinna; kaupið var hækkað án þess þeir bæðu um það, og var þeim svo lofað 200, ef þeir yrðu þriðja érið. En þá voru þeir búnir að frétta um Nýja Ísland og fýsti þangað, svo þeir réðust ekki í þriðju ársvist.

Þeir lögðu af stað til Nýja Íslands snemma vors 1876. Komu til Milwaukee snemma í apríl og dvöldu þar mánuð hjá kunningjum sínum, og lögðu svo af stað; stönsuðu snöggvast í Minneapolis; þar giftist Skúli fyrstu konu sinni, sem síðar verður getið. Til Winnipeg komu þeir á föstudag 12. maí, og fengu strax vinnu þar við að afferma gufubát. Seint í maí fékk Halldór vinnu hjá Jóni Taylor umboðsmanni og vann að mestu leyti hjá honum í þrjú ár.

Skúli flutti til Nýja Íslands í júlímánuði og settist að hálfa mílu norðan við Landamerkjalæk (Boundary Creek), nam þar land við vatnið og nefndi Bræðraborg þar eru nú sumar-bústaðir. Þeir bræður námu sitt landið hvor, og höfðu þá samið með sér að hafa félagsbú til óákveðins tíma, og höfðu það í 25 ár, skiftu búi á milli sín í Argyle 1901. Meðan þeir voru í Nýja Íslandi vann Halldór utan heimilis, en Skúli gætti búsins heima.

Á Bræðraborg var erfitt að afla heys, svo vorið 1879 fluttu bræðurnir búferlum norður að Dvergasteini. Frum-

búinn þar, Jón Bergmann, faðir séra Friðriks Bergmanns sáluga, flutti til Dakota það vor.

Á Dvergasteini gerði Skúli umbætur talsverðar. Líka vann hann fyrir stjórnina að því að hreinsa og gera farveg, svo vatnið af láglendinu fengi framrensli út í Winnipegvatn. Á vetrum vann hann líka út frá heimili sínu, þegar kringumstæður leyfðu honum, með því að flytja vörur til kaupmannanna í Nýja Íslandi, Friðjóns Friðrikssonar á Gimli og Samsons Bjarnasonar í Árnesbygð.

Í marzmánuði 1881 flutti Skúli frá Dvergastenni til Argyle (sjá í sögu G. Norðmanns að framan). Hann fór með tvo uxa og þrjár kýr. Halldór varð eftir og kom seinna um vorið með 20 gripi og varð að láta þá synda yfir Assiniboine-ána, og leidddi það til pestar í þeim, svo nokkuð af þeim drapst.

Skúli bjó í Argyle í 33 ár. 1914 flutti hann til Winnipeg og býr þar nú, eins og sagt er á ensku sem "retired farmer" (uppgjafabóndi), að loknu vel unnu dagsverki.

Hann er þríkvæntur. Fyrsta kona hans, Sigríður Erlendsdóttir frá Reykjavík. Þau voru gift af séra Jóni Bjarnasyni í Minneapolis, á mánudag 8. maí 1876. Sigríður dó á miðvikudag 10. ágúst 1881. Börn fimm, lifa þrjú: 1. Lára, kona Kristjáns Þórðarsonar bónda í Peace River dal; 2. Hannes, bóndi í Wynyard-bygð, Sask., kvæntur Margréti dóttur Guðmundar Egilssonar frá Vatnshorni; og 3. Guðrún, ekkja eftir Halldór Jónsson, son Jóns Magnússonar frá Skeggjastöðum á Jökuldal.

Önnur kona Skúla, Margrét Árnadóttir, ættuð úr Skagafirði. Þau giftust í Winnipeg vorið 1882. Margrét dó 1889; börn fimm, lifa tveir synir: Hjalti, nú, þegar þetta er ritað, nýkominn heim úr herþjónustu fyrir austan haf; líður vel að öllu leyti. Annar sonur, Jón, býr á gömlu heimajörð föður síns, keypti af honum fasteignir og lausafé; kvæntur Ágústu Jónsdóttur Helgasonar, bróðurdóttur Jakobs Helgasonar að Dafoe, Sask.

Þriðju konu sinni giftist Skúli 18. október 1890. Hún heitir Guðrún Hafliðadóttir, ættuð úr Mýrasýslu; börn eru átta og lifa sjö: 1. Valdimar, gekk í herþjónustu og var við æfingar í fimm mánuði, var þá ekki álitinn nógu hraustur til að halda áfram; 2. Sigríður, 3. Marta, 4. Albert, vann um tíma í loftskipa herdeildinni; 5. Svanhildur, 6. Sigurveig, 7. Fjóla. Jóhanna heitir stjúpdóttir Skúla,

gift manni af enskum ættum í Alberta; þá er og fóstursonur, Jóhannes Þórðarson, systurdóttursonur Skúla.

---

Halldór Árnason hafði póstflutninga á hendi meiri part tímans, sem hann var í Nýja Íslandi, og skilaði því starfi af sér vorið 1881. Vorið 1877 var hann um tíma á bóluvarðar-stöðinni túlkur þeirra, sem fengu að fara upp til Manitoba frá Nýja Íslandi,



**Halldór Árnason og Sigríður Jónasdóttir.**

Eins og kunnugt er, voru burtfararhreyfingar byrjaðar í Nýja Íslandi á árinu 1878. Þá fyrir árslok fór Halldór í landaskoðun vestur í Manitoba; varð þó ekki af því, að íslenzkt landnám yrði stofnað á því svæði, sem hann skoðaði.

Haustið 1880 hófst landnám Íslendinga í Argyle. Plássið var valið til landnáms af Skafta Arasyni, Halldóri Árnasyni og Friðbirni Friðrikssyni.

Halldór kvæntist 1881. Kona hans, Sigríður Jónasdóttir frá Landi í Axarfirði; börn eru þrír synir, Árni, Jónas og Snorri. Jónas er kaupmaður í Cypress River, kvæntur Jónasínu Tryggvadóttur Stefánssonar.

Eins og áður er getið, höfðu bræðurnir félagsbú í 25 ár. Samkomulagið á milli þeirra hefir verið hið bezta; mun þá aldrei hafa greint á um nokkurn hlut. Báðir hafa verið framkvæmdamenn. Sá, sem þetta ritar, vann hjá Skúla part af vorinu 1877. Hann minnist þess, af hvaða kappi Skúli vann á Bræðraborg að umbótum. Hann var einn þeirrra. sem hlutu heiðursmerki hjá Dufferin lávarði fyrir framkvæmdir í landbúnaði.



*Arnljotur B. Olson*